# Jólagjøf

handa

# Børnum

frá

**Jóhanni Haldórssyni,**
Studiosus juris.

Prentud hjá Berlingum
í Kaupmannahøfn.

**1839.**

## Børn mín góð!

Nú sendi og ykkur Jólagjøfina, er eg hét ykkur í sumar ed var í boðsbréfi mínu. Vera má, að hún falli ykkur ekki með øllu vel í geð, en samt hefi eg góða von um, að þið verðið fús á, að læra að lesa á henni, því hún er lítil eins og þið, en hvað elskar sér líkt. Þið getið líka borið hana í barminum á sumrum, þegar þið sitjið hjá kvíénu eður lømbunum, og lesið í henni með eptirtekt og athygli meðan spekt er á hjørðinni. Verði eg þess áskynja, að þið hafið nokkurt gagn eður gaman af kveri, þessu, þá hefi eg í hyggju að senda ykkur Nýársgjøf að næstkomanda vori 1840;

á henni að fylgja skrifleturs stafrof, stúngið í eyr, og ætla eg að láta mér annt um, að það verði svo fallegt sem auðið er, til þess ykkur verði óhætt að laga eptir því stafi þá, er þið búið til. Eg vonast þá eptir, að þið lærið að draga til stafs jafnframt og þið lesið kverið, og verðið svo ásíðan øllsaman skrifandi.

Af því nú allar gjafir þiggja laun, þá er það að miklu leiti komið undir foreldrum ykkar, hvort eg get sendt ykkur Nýársgjøfina eður ekki, og megið þið þá ekki reiðast mér fyrir óorðheldni, ef það kann að bregðast.

J. Haldórsson.



## Yfirlit efnisins.

## Frómlyndi.

Hofdíngi nokkur fékk einusinni fátækum trésmid skáp til adgjørdar. Í skápnum var leynihandradi, sem eigandinn vissi ekki af. Smidurinn fann hann og øskjur í honum med dýrmætum gimsteinum. Láttú nú ekki á neinu bera, sagdi einn af kunníngjum hans, sem var vidstaddur og kunni ad meta steinana. Hann skodadi vandlega fundna sjódinn og sagdi vid smidinn, konu hans og dætur: nú verdid þid ad þegja øllsaman, jeg get útvegad ykkur 10,000 ríkisdali fyrir gimsteinana, þar af áskil jeg mér þridjúnginn, hitt alltsaman er ykkar eign, getid þid ad eins þagad! Vinur! sagdi smidurinn, hvad á jeg eda þér med ad leyna fundinum? líklega hefir fadir velgjørdamans míns, sem

er dáinn fyrir mørgum árum, geymt dýrgripi þessa án vitundar erfingja sinna; það er ekki rétt að leyna því, sem menn finna; það er því skylda mín að skila þeim. Hann fór með eskjurnar til eiganda skápsins, en eigandinn varð feginn mjøg og sagði: eskjurnar eru 30,000 dala virði; faðir minn varð bráðkvaddur, en daginn áður enn hann dó, hafði han ritað hjá sér, að hann hefði keypt steinana og veitt þeim viðtøku; einginn var viðstaddur þegar hann sáladist, nema únglingur nokkur, sem var sakaður um stuld á þeim, og settur í dýblissu, enn han strauk út úr henni, og hefir ekki spurst til hans síðan. Mér þykir miklu vænnra um það, sagði hann, að sakleysi aumíngja drengsins er sannað, enn um fundna sjóðinn. Þér eruð ráðvandur maður, sagði han við smiðinn, jeg gef yður eins mikið og kunníngi yðar virði steinana!

## Stolni áttskildingurinn.

Einusinni sátu hjón nokkur að matborði með börnum sínum; vinur þeirra hafði sókt þau heim og matadist með þeim. Meðan þau snæddu var sólin komin í middegisstað; sá þá komumaður dálitið barn, násölt í snjóhvítum klæðum, ljúka upp hurðinni og koma inn. Það leit hvorki til hægri né vinstri, og gekk þegjandi inn í næstu stofu. Skömmu seinna kom það aptur og fór þegjandi burt. Tvo daga, hvern eptir annan, kom sama barnið í sama mund. Komumaður spurði þá bónda hvorra manna fallega barnið væri, sem á degi hverjum um middegis-bil gengi inn í stofuna. Bóndi kvaðst ei vita það, hann hefði ekkert barn séð. Þegar barnið kom inn daginn eptir, gjörði aðkomumaður bónda varan við, en hann sá það ekki né heldur konan og börnin.

Aðkomumaðurinn stóð nú upp, gekk til

dyranna, lauk hurdinni upp á hálfa gátt, og gægdist inn. Þá sá hann nábleika barnid sitjandi á gólfinu í oda ennum ad pota fíngrunum inn í rifuna millum fjalanna; en þegar það sá ókunna manninn, hvarf það. Sídan sagdi hann frá því, er hann séd hafdi, og lýsti barninu vandlega. Módir þess þekkti það, og sagdi: æ, það er blessadur únginn minn, sem jeg missti fyrir fjórum vikum! Þá losudu þau um fjalirnar, og fundu áttskildíng. Barnid átti einnsinni ad gefa hann fátæklíngi, en það hafdi hugsad med sér: jeg skal geyma áttskildínginn þann arna í rifunni millum fjalanna í gólfinu, og kaupa mér sídan fyrir hann hveitibraud. Nú hafdi barnid einga ró í grøfinni, og vard ad koma á degi hvørjum um midmunda til ad leita ad áttskildíngnum. Foreldrar barnsins gáfu fátækum manni peníngin og upp frá þeirri stundu sá einginn madur barnid.

## Presturinn og hermadurinn.

Það bar til eitt sumar sudur á Frakklandi, að prestur nokkur þar upp til sveita, var á gángi úti eitt kvøld að vanda til að skemta sér. Hann sá hvar hermadur nokkur kom á móti sér, er var að kveða hátt gamanvísur og horfa allt í kríngum sig; svo mikill ánægju- og gleði- bragur var á manni þessum, að presti féll hann vel í geð. Undireins og hermadurinn verdur øldúngsins vís, heilsar hann honum vinsamlega, og spyr hann að vegi til næsta þorps. Presturinn segir honum til vegar, og með því hann verdur þess áskynja, að hann á lánga leið fyrir hendi, gefur hann honum fáeina skildinga til ferdarinnar; hermadurinn þakkaði honum føgrum orðum og hélt áfram leið sína; en þótt hann hefði gengið mikið og væri orðinn þreyttur mjøg, fór hann þó undir eins aptur að kveða og hann var skilinn við prest.

Prestrinn, sem var hið mesta góðmenni, og þótti vænt um að vel lægi á mönnum, heyrir þetta, kallar aptur á hann, og segir: þu heldur þá eins mikið á hljóðunum og fótunum maður minn! eptir svo mikla áreynslu þarftú góðs kvöldverðar við, og í því hann sagði þetta, tók hann upp hjá sèr gullpeníng og gaf hermanninum.

Hermaðurinn varð nú lángtum kátari enn áður, og óðar enn hann kæmi til þorpsins, fer hann þar inní matsöluhús nokkurt og kaupir sèr bæði mat og vín; en til þess að auka á gleði sína, býður hann tveimur úngum bændum, sem þar vóru viðstaddir, að neyta með sèr matar og drykkjar. Þeir átu þar, drukku og súngu lángt fram á nótt. Loksins kallar annar af bændunum hátt til hermannsins, og segir: nú drekk jeg þitt minni lagsmaður, ástar þakkir fyrir allt gott í kvöld! Það er ekki að þakka mèr fyrir það, heldur prestinum okkar, svaraði hermaðurinn;

látum okkur nú allasaman fara til hans og þakka honum fyrir okkur! Þeir vóru nú allir ordnir svo kendir, ad einginn gádi ad, hvört þad væri ordid í ótíma ad fara til prestsins edur ekki, hlupu því út, og þáng ad, sem presturinn átti heima, en þar var allt læst og lokad. Bændurnir urdu nú med øllu hissa, og søgdu þad væri aldrei vant ad vera svona hardlokad hjá prestinum; þeir bördu nokkrum sinnum ad dyrum, en eigi var lokid upp ad heldur. Nú tók þeim ad óróast mjøg, því þeir vóru ordnir býsna drukknir, og einn þeirra hafdi svo litla gát á gjørdum sínum, ad hann hleypur af øllu afli á dyrnar og mølvar upp hurdina; hinir Bádir støkkva inn á eptir honum, en í því þeir koma inn fyrir þrepskjøldinn, ætla þeir ad lída nidur af hrædslu, því — hvad sjá þeir ekki — presturinn hángir þar í snøru nidur úr mænirnum rétt fyrir innan dyrnar. Hermadurinn dregur á augabragdi sverd sitt

úr slíðrum og høggur í sundur snøruna, hinir hlaupa inní stofuna og finna þar tvo menn, er níðíngsverkið höfðu unnið, í óðaønn að safna saman peníngum og dýrgripum prestsins, er þeirætludu að hafa á burt með sér. Þeir ráðast á illvirkjana, bera þá ofurliði, og binda á þeim hendur og fætur. Að því búnu hleypur annar bóndinn út, til að safna fleiri mønnum, svo þeir gætu flutt ódáðamennina til yfirvaldsins. Meðan á þessu stóð, raknaði presturinn við aptur, þar hann til allrar hamíngju hafði hángið skamma stund áður enn hermaðurinn skar hann ofan. Presturinn lofaði guð af øllu hjarta fyrir lífgjøfina og sagði: gott er að gjøra vel og hitta sjálfan sig fyrir.

## Hreiðrið.

Það var eitt vor, að smádrengir tveir, Jóhannes og Vilhjálmur fóru með föður sínum út á lystigarð, sem hann átti fyrir utan borgina. Faðir þeirra var skrifari kongs, er um sama leiti fór út á veiðiborg sína. Drengirnir vóru glaðir og kátir, hlupu úti frá morgni til kvølds, og var faðir þeirra jafnan með þeim. Eittsinn fór hann með þá í fagran skóg, þar fundu þeir hreiður, og høfðu sér það mjøg að skemtan. Setjið ykkur niður drengir, sagði faðir þeirra, jeg ætla að segja ykkur søgu um hreiður, takið þið nú vel eptir! Drengirnir settust niður í grasið, og faðir þeirra hóf søguna þannig: það eru á að geta 40 ár síðan, að drengur nokkur fátækur sat þar, sem jeg sit núna, og gætti fjár, han las í bók með mesta kappi, en gleymdi þó ekki að líta eptir hjørðinni. Þá kom lítill drengur út úr

skóginum á aldur við hann, í gullisaumuðum kjól. Hann var kóngsefni, en bónda-drengurinn þekkti hann ekki; hann hugsaði það væri sonur veiða-foríngjans, er þar var kominn fyrir skömmu; hann heilsaði hinum aðkomna og kóngsefnið sagði við hann: eru her eingin hreiður? nóg af hreiðrum, svaraði drengurinn. Heyrið þér ekki fuglana syngja hérna? allir eiga þeir hreiður.

Veitstu ekki af neinu? spurði kóngssonur, drengurinn sagði: jú, jeg hefi aldreí séð eins fallegt hreiður. Viltu ekki segja mér hvar það er, spurði kóngssonur. Nei, það má jeg ekki, svaraði drengurinn. Jeg skal borga þér það, sagði kóngssonur. Það kemur fyrir eitt, svaraði drengurinn.

Í sama bili kom til þeirra maður nokkur, gøfuglegur og hniginn á efra aldur, það var fóstri kóngssonar. Hann var hissa af við-ræðum þeirra, og sagði við drenginn: vertu ekki svona meinsamur, drengur minn! þessi drengur hefir nýlega lesið margt um

hreidur, en aldrei fengid færi á ad sjá þau. Vertú óhræddur, hann ætlar ekki ad skemma þad. Drengurinn hristi hofudid, og sagdi: þess er samt einginn kostur ad jeg geti ordid vid bón ydar! Heyrdu nú drengur minn, mælti fóstri konúngssonar, þessi úngi madur, er þú sér, er kóngsefnid, þu gjörir þad fyrir hann. Er þad kóngsefnid? mælti drengurinn, tók ofan, og stód berhofdadur med hattinn í hendinni. Þad þykir mér slæmt, ad geta ekki sýnt kóngssyninum fallega hreidrid! Þad er leidur þrjótur strákurinn sá arna, sagdi kóngssonur. Ad minsta kosti verdur þú ad segja okkur hvorsvegna þú ekki vilt sýna okkur hreidrid, sagdi fóstri konúngssonar. Já, þér megid ekki reid ast, svaradi drengurinn, þad hefir annar drengur, sem heitir Kristján, sýnt mér þad, og jeg hefi lofad honum og lágt vid dreng-skap minn, ad sýna þad eingum manni. Þér sjáid nú sjálfur, ad jeg get þad ekki. Þad er annad mál, mælti fóstri konúngssonar

en til þess að reyna drenginn, sagði hann: hérna er spesía handa þér drengur minn ef þú sýnir okkur hreiðrið, hann Kristján þarf ekki að vita það!

Drengurinn hugsaði sig um stundarkorn og sagði: við erum að sönnu bláfátækir, hann faðir minn hlýtur að vinna æði lengi, áður enn hann fær svona mikið kaup — en það er nóg að jeg hefi lofað honum Kristjáni að þegja og staðfest það með handabandi! Að svo mæltu kvaddi hann þá auðmjúklega og ætlaði að fara burt.

Veiðimaður kóngssonar hafði heyrt álengdar allar þessar viðræður. Þegar drengurinn ætlaði framhjá honum, brá hann sverði, greip í brjóstið á honum, og sagði! þorir þú, strákhvolpurinn þinn, að neita kóngssyninum um að sjá hreiðrið? Segðu undir eins hvar það er, ella mun hriggur þinn fá að kenna á hörðu! Drengurinn skalf af hræðslu, og æpti með tárin í augunum:

fyrirgefið mér! fyrirgefið mér! jeg má ekki segja það.

Sleptú honum, sagði fóstri koníngssonar, vertu óhræddur drengur minn, þér skal ekki verða gert mein! þú ert vænn drengur, en biddu kunníngja þinn, að lofa þér að sýna okkur hreiðrið, við skulum gefa ykkur gullpeníng ístaðinn. Jeg þakka ydur ástsamlega, sagði smaladrengurinn, áður enn kvøld er komið, skal jeg láta ydur vita annaðhvort.

Kóngssonur fór nú með fóstra sínum til veiðiborgarinnar. Um kvøldið varð þeim litið út um gluggan, og sáu þeir hvar drengurinn kom; þeir hlupu út á móti honum til að vita með hvaða boð hann kæmi. Hann kallaði til þeirra, og sagði: þið megið sjá hreiðrið, hann Kristján hefir leyft það; viljið þér nú koma með mér herra kóngsefni?

Smaladrengurinn hljóp á undan til að vísa þeim veginn, en kóngssonur og fóstri

hans gengu á eptir. Inní skóginum komu þeir að fallegum þyrnirunni; drengurinn greiddi limið í sundur smátt og smátt til hliðar, og sagði svo í hálfum hljóðum: hérna er það, nú situr hún á eggjunum. Þeir læddust að, og sáu dálítinn fugl ofboðs fallegan með rauðri bríngu og gulum hálsi, sitja á hreiðrinu. Fuglinn flaug nú af eggjunum þegar hann heyrði til þeirra. Kóngssonurinn skoðaði vandlega smáu eggin, og hið haglega tilbúna hreiður; fóru þeir svo hægt í burtu, og skömmu seinna sáu þeir hvar fuglinn flaug aptur á eggin.

Nú skaltu fá þau laun, er jeg hét þér, drengur minn, sagði fóstri koníngsefnisins, en mundu eptir að gefa honum Kristjáni með þér! Við skulum skipta með okkur í kvöld, sagði drengurinn; hann þakkaði fyrir sig svo vel, sem hann kunni, og kvaddi þá glaður og ánægður.

Daginn eptir héldt fóstri koníngssonar

spurnum fyrir í þorpinu, hvaða orð færi af dreng þessum. Allir nágrannar hans hrósuðu honum; og peníngunum hafði hann skipt til helmínga með þeim Kristjáni.

Honum geðjaðist svo vel að hegðan drengsins, að hann sagði konúngi frá honum, og þareð hann hafði heyrt að drengurinn væri námfús mjøg, bað hann konúng um að láta hann nema vísindi. Hann kvaðst vera viss um, að drengurinn myndi með tímanum verða trúr þjónustumaður kóngssonar. Kóngur lét að orðum hans, og varð sú raun á, að fóstra konúngssonar hafði litist rétt á drenginn.

Faðir minn! hvað varð, þá úr honum? mæltu þeir Jóhannes og Vilhjálmur. Hann varð skrifari hjá kónginum, svaraði faðir þeirra, og á nú 2 sonu, þeir heita Jóhannes og Vilhjálmur; únga kóngsefnið er nú kóngur ykkar og fátæki smaladrengurinn er faðir ykkar.



## Sannleikinn er sagna bestur.

Drengur nokkur austur í Persíalandi, að nafni Abdúl-Kadír, ráfaði jafnan einn-saman úti á víða vángi; var hann þá einatt að velta fyrir sér, hvørsu margir og furðulegir hlutir væru til í heimi; einnig hugsaði hann um hina æðstu veru, er skapað hefði hluti þessa. Stundum hitti hann ferðamenn á leið til borgarinnar Mekka í Arabíu; sögðu þeir honum frá spámann-inum Múhameð, sem var borinn þar og barnfæddur, hafði hann kennt þeim hvørn-ig þeir ættu að dýrka guð réttilega. Abdúl-Kadir lángaði nú meir og meir til að geta lesið hin helgu rit um skapara heimsins, til að geta heyrt vitra menn þýða þau og útlista, og til þess einhvørn-tíma að geta orðið fróðari mannanna. Einusinni sagði hann við móður sína, er nýlega var orðin ekkja, að eina ósk sín

væri sú ad helga gudi líf sitt, og ferdast til Bagdad til ad fá þekkíngu á gudi og og nema gudleg frædi. Módir hans grét fögrum tárum, en mælti þó ekki í móti áformi hans; hún tók 80 gullpenínga upp úr buddu sinni og sagdi; þetta er nú allur födurarfurinn, en af því þú átt bródur, getur þú ekki fengid nema helmínginn. Hún fékk honum nú arfinn og sagdi: fyrst þú ætlar nú ad skilja vid mig, þá skaltu vinna mér eid, ad segja aldrei nema hid sanna! Hann játti því, en módir hans kvaddi hann á þessa leid: vertú nu sæll sonur minn, gud veri med þér! Vid hittumst ekki fyrr enn á dómsdegi.

Abdúl-Kadír flýtti nú ferd sinni; slóst hann í för med mörgum ferdamönnum, er áttu samleid vid hann; en spölkorn frá borginni Hamadan rédust á þá stigamenn, þeir menn vóru arabiskir, 60 í hóp, allir-saman ridandi. Einn af stigamönnum þessum

spurði Abdúl-Kadír hvörsu mikla penínga hann hefði á sér? Jeg hefi, svaraði hann, 40 gullpenínga, þeir eru saumaðir í skirtunna mína. Ræníngiun, sem ekki var vanur við slíka hreinskilni, réði sér ekki fyrir hlátri, og hugsaði að drengurinn væri að gabba sig. Þá kom annar ræníngi til hans og spurði: hvað hefir þú á þér? Abdúl-Kadír svaraði á sömu leið, en ræníngiun reiddist, bardi hann og sagði: ertu að stríða mér stráknr? Skömmu seinna var farið með Abdúl-Kadír uppá hól nokkurn, hvar stigamanna foríngiun skipti ránsfénu. Foríngiun spurði hann nú á þessa leið: þú munt ekki hafa neitt á þér drengur litli? Jú, jeg er búinn að segja tveimur af mönnum þínum, að jeg hafi 40 gullpenínga, er svo vandlega eru saumaðir í fötin mín, að valla mundi nokkur maður finna, er eigi af vissi. Foríngiun skipaði að spretta skyldi í sundur

fötum hans, og að því bünu fundust peníngarnir.

Stigamanna foríngjan furðaði mjøg og mælti: hvað kemur til, að þú ert svo fús til að láta það uppskátt, sem vandlega er hulið? Abdúl-Kadír svaraði: það ber til þess, að jeg vil efna heit það, er jeg gjørða móður minni, jeg lofaði henni að segja aldrei nema satt. Drengur minn, sagði foríngjinn, en hvað jeg svo gamall maður get verið skeitíngarlaus um skyldur þær, sem guð hefir boðið mér að rækja, þar sem þú svona úngur lætur svo mikla skyldurækt í ljósi við móður þína.

Svo þókti stigamanni mikils umverdt um sannsøgli Abdúl-Kadírs, að hann eptir stunda þøgn tók svo til máls: réttu mér hønd þína drengur góður, að jeg megi sverja þér yðran og apturhvarf! Flestir af ræníngjunum komust svo við af atburði þessum, að þeir søgðu: eins og þú hefir

verið foringi vor og leiðtogi á lastanna vegi, eins skaltu vera það á vegi dygðanna!" Jafnskjótt skiluðu þeir að dæmi foríngja síns ránsfénu aptur, og unnu drengnum dýra eiða, að héðanifrá skyldu þeir hætta øllum ránskap og byrja nýtt líferni.

En Abdúl-Kadír héldt áfram ferð sinni til Bagdad; varð hann mikill maður og vitur, og nafntogaður um allt Persíaland.

---

## Sonar-ást.

Smiður nokkur fátækur að nafni Bertrand átti 6 úngbørn; honum var fátt mjøg til matfánga handa þeim. Það, sem mest bætti á bágindi hans, var það, að hardt var í ári og matfaung helmíngi dýrari enn að undan førnu. Bertrand vann baki brotnu nótt og dag, en samt gat hann ekki

haft ofan af fyrir sér og börnum sínum; urðu þau að leggja sér til munns hið lakasta viðurværi, og skorti þó mjög til fulls fæðis.

Einusinni lá illa mjög á Bertrand, hann kallaði úngu fjölskylduna saman, og sagði með tárin í augunum, börn mín góð! brauðið er nú orðið svo dýrt, að jeg get ekki, hvað mikið sem jeg starfa, unnið fyrir fæði ykkar; lítið á, brauðbitan arna varð jeg að kaupa fyrir allt dagkaupið mitt, þið verðið nú að láta ykkur lynda það litla, er eg get útvegað ykkur, það er eingan vegin nægilegt til að seðja ykkur, en samt er það svo mikið, að þið verðið ekki húngurmorða. Treigi þessi gat nú ekki meiru uppkomið, hann fórnaði höndum til himins og fór að gráta. Börnin grétu líka, hvort þeirra sagði með sjálfu sér: guð minn góður hjálpaða okkur, við fátæklíngarn ir eigum svo bágt! hjálpaðu honum föður okkar og láttu hann ekki deya úr húngri!

Bertrand skipti brauðinu í 7 jafna

parta, einn handa sjálfum sér, en hina handa börnunum. Eitt af börnunum, er hét Amand, vildi ekki þyggja sneidina, sem honum var ætlud og sagdi: fadir minn, jeg er sjúkur, bordadu sjálfur bitan minn, eda skiptu honum med hinum börnunum! Hvad gengur ad þér vesælíngur? sagdi Bertrand, og fadmadi hann. Mér er illt, mikid illt, sagdi Amand, jeg vil leggjast uppí rúm.

Bertrand bar hann þá í rúmid sitt, og snemma morguninn eptir fór hann harmþrúnginn á fund læknis nokkurs, er hann bad í gustuka skyni ad hjálpa syni súnum, sem væri sjúkur. Læknirinn var madur ósérplæginn mjøg, og kom til Bertrands, þótt hann væri viss um, ad hann fengi einga borgun fyrir fyrirhøfn sína. Hann gengur nú ad rúmi Amands, tekur á lífædinni á honum, en getur ekki fundid nein sjúkleika einkenni, samt fann hann, ad

Amand var máttfarinn mjøg, og til þess að styrkja hann, ræður hann að kaupa drykk úr lækningbúðinni. Amand sagði: herra minn, þér megið ekki ráða mér, að hafa við lækníngar, jeg vil þær ekki.

Læknirinn: viltu þær ekki? og hvørsvegna má jeg spyrja?

Amand: spyrjið mig ekki um það, góði herra, jeg get ekki sagt ydur það?

Læknirinn: því þá barnið mitt? mér þykir þú vera þrár drengur minn!

Amand: það er ekki af þrái, herra minn, þér megið vera viss um það.

Læknirinn: það kann satt að vera, jeg vil ekki neyða þig, en jeg ætla að spyrja hann føður þinn, hvað að þér gángi, hann verður ekki svona dulur á því.

Amand: æinei, góði herra, faðir minn má ekki vita það.

Læknirinn: Það er ekki hægt að skilja þig barnið mitt, jeg hlýt að segja honum

födur þínum, ad þú viljir ekki segja, hvar þér sé íllt.

Amand: fyrir alla muni gjorid þad ekki, jeg vil heldur segja ydur þad; en med því móti, ad þér látid systkinin mín fara út á medan. Læknirinn skipadi börnunum út, en Amand sagdi: æ, herra minn! í hallæri þessu verdur hann fadir minn ad vinna baki brotnu til þess ad geta keypt ögn af svartabraudi, er hann skiptir med okkur, sérhvört okkar fær ofurlítinn mola, og sjálfur hefir hann valla neitt eptir; mér sárnar ad sjá systkinin mín svelta; jeg er eldstur þeirra og þoli meira, þessvegna vil jeg ekki eta, þá geta þau skipt mínum skerfi med sér; þessvegna hefi jeg gert mér upp veikindi, og látist ekki geta bordad. Þér megid nú ekki segja honum födur mínum frá þessu!

Læknirinn þerradi tárin úr augunum og sagdi: ertu þá ekki svángur drengur minn?

Amand: jú, jú, mig sker fyrir brjóst,

en mér þikir það betra, enn að sjá aðra deya úr húngri.

Læknirinn: Þú deyrð bráðum drengur minn, ef þú borðar ekkert.

Amand: Það finn jeg dável, herra minn! en mig lángar til að deya, þá hefir hann faðir minn færri að sjá fyrir, og þegar jeg kem til guðs míns, ætla jeg að biðja hann að gefa bræðrum mínum og systrum nokkuð til viðurværis.

Læknirinn, eitthvört mesta valmenni, komst við af orðum þessa göfuglynda drengs; han tók hann í fáng sér, hélt honum upp við hjartað á sér, og mælti: nei, vinur minn! þú skalt ekki deya úr húngri. Guð almáttugur, faðir okkar allra, mun hjálpa þér og systkinum þínum. Guði sé lof fyrir það, han sendi mig híngað! jeg skal bráðum koma aptur. Læknirinn hljóp nú heim til sín, og lét einn af þjónum sínum taka svo mikið af allskonar matfaungum, sem

hann gat borið, og skipaði honum að fylgja sér til Amands. Hann lét nú öll bornin setjast að matborði, og gaf þeim svo mikið að eta, að þau fengu nægju sína. Það var óviðjafnanleg sjón fyrir læknirinn, valmennið góða, að sjá hvað það hýrnaði yfir saklausu börnunum. Þegar hann fór af stað, bað hann Amand að vera ókvíðinn því hann mundi bera umhyggju fyrir nauðsynlegu viðurværi þeirra. Læknirinn efndi líka dyggilega heit sitt. Á hverjum degi sendi hann þeim eins mikinn mat og þau gátu torgað. Aðrir góðgjarnir menn, sem hann hafði sagt frá börnum þessum, létu sér hans fyrirmyndan að kénningu verða, sendu sumir fatnað, svo fátæku börnin höfðu nú að fáum dögum liðnum allt það, sem þau við þurftu.

Þegar kóngurinn fékk að vita hvað hann litli Amand hafði gjört fyrir föður sinn og systkini, dáðist hann að svo fágætu göfuglyndi og lét sækja Bertrand. Þér

eigið son, mælti konúngur, sem ekki á sér marga líka, jeg vil einúngis vera faðir hans. Jeg hefi boðið að gefa yður í mínu nafni 100 ríkisdali á ári hverju meðan þér lifið; Amand og hinum börnunum yðar skal verða á minn kostnað kennt, að leita sér atvinnu með þeim hætti, er þau sjálf mega kjósa, líka mun jeg ala önn fyrir þeim framvegis.

---

## Börnin í dalnum.

Í djúpum dal við alfaraveg bjó einusinni gömul kona með tveimur barnabörnum, er hún hafði tekið að sér, því foreldrar þeirra vóru dánir; hún hafði altènd verið góð við þau, og unnið nótt og dag fyrir fæði og klæðum handa þeim. Frá morgni til kvölds spann hún á rokkinn sinn, og leit

jafnan út um gluggan til þess ad sjá hvört einginn kæmi.

Flestir af ferdamønnum vóru vanir ad á hestum sínum skamt frá kofa hennar, og flýtti hún sér alténd med vatnsføtu handa hestunum, og vóru henni gefnir fyrir þad fáeinir skildíngar. En nú var hún farin ad verda hrum og máttlítil, og veitti henni ørdugt, einkum þegar hiti var mikill edur illvidri, ad sækja vatnid og bera þad út á veg.

Eitt kvøld sátu børnin litlu úti undir kofa veggnum; dreingurinn litli sagdi þá vid systur sína: María! jeg vildi vid gætum unnid okkur inn nokkra peninga! amma okkar hefir nú unnid í svo mørg ár baki brotnu fyrir okkur, nú verdum vid sjálf ad fara ad létta undir med henni. Þad er sjálfsagt sagdi María, en hvørnig eigum vid ad eignast peninga? Þad skal jeg segja þér, svaradi Hannes, jeg hefi

sagt henni ömmu minni, að jeg skyldi héðan af sækja vatn handa hestum ferðamanna og að hún skyldi sitja kyr við rokkinn sinn; skoðaðu körfuna, sem jeg er búinn að ríða! þú verður að fara snemma á fætur á morgun og tína hana fulla með bláber! þú veitst að um þessar mundir fara margir höfðíngar hérna framhjá, og þegar þeir á, verður þú að bjóða þeim berin fyrir verð. Það er óskaráð, svaraði María, og þegar bláberjatíminn er liðinn, þá tíni jeg krækjuber, og má vera að við með þessu móti græðum svo mikla penínga fyrir veturnætur, að við getum keypt brekán ofaná rúmið hennar ömmu okkar. Já, það er satt, sagði Hannes, henni var laungum kalt í vetur var með þunnu ábreiðuna, gömlu; hún tekur alténd hvað eina frá sér til að hlúa að okkur.

Morguninn eptir skundaði María út á berjamó og tíndi körfuna fulla, gekk hún síðan út

á veg þar sem hann stóð með vatnsfötuna. Hannes varð hyrleitur þegar hann sá lítlu körfuna fulla með bláber; hann var farinn að ríða aðra eins, og settist nú niður undir eik nokkra við veginn og heldt áfram verki sínu. María sókti prjónana sína, settist hjá honum og lét körfuna standa á steini til fóta sér. Hannes og María vóru væn børn, hafði amma þeirra snemma vanið þau á þrifnað og gott skipulag í ollu athæfi sínu.

Bernin horfðu nú laungum fram eptir dalnum, en lengi máttu þau bíða þángað til þau sáu nokkurn koma. Loksins kom bóndi nokkur ríðandi, hann áði í dalnum og Hannes vatnaði hestinum hans, en bóndinn gaf honum einskilding ístaðinn og fór leiðar sinnar. Margir komu, sem ekki stóðu við, leit þá María raunalega til berjanna sinna; hún var hrædd um að þau myndu skemmast ellegar að hún og

hann Hannes yrdu sjálf ad eta þau án þess ad fá einn skildíng fyrir starfa sinn. Heyrdu María, sagdi Hannes, þú mátt ekki láta þér bugfallast, þad er lángt til kvølds ennþá. Lokfins kom einhvør hofdíngi med konu sinni og fjórum børnum. Medan Hannes hljóp eptir vatni handa hestunum, hafdi María berin sín á bodángi vid adkomumenn. Børnin lángadi undireins í berin; fadir þeirra leyfdi þeim ad taka vid kørfunni, og átu þau nú eptir vild sinni.

Foreldrar barnanna spurdu Maríu um hitt og þetta; medal annars vard hún ad segja til nafns síns og hvad bródur hennar héti og frá ømmu sinni og kotinu. Ámedan kom þar madur rídandi, gøfuglegur ásyndum. Hannes gaf hestinum hans ad drekka, rétti svo ad komumanni húfuna sína, og flegdi hann nokkrum smáskildíngum í hana og fór svo leidar sinnar. Hannes lédi nú Maríu húfuna sína til þess ad

rétta að hinum manninum, er spurði hana hvað hún áskildi sér fyrir berin sín. Því skulud þér sjálfur ráða, svaraði María. Höfdínginn fór ofaní vasa sinn og kastaði býsna mörgum peningum í húfuna; þókti börnunum eins fátæk og þau vóru, vænt um hrínglið í peningunum í húfunni. Maðurinn fór nú af stað, og smáu börnin kvöddu Hannes og Maríu vingjarnlega. Ertu nú ánægð? sagði Hannes við systur sína. Já, svaraði hún og hristi húfuna svo glamraði í peningunum, viltu nú telja peningana Hannes? nei, sagði hann, jeg ætla fyrst að sækja eina vatnsfötu, sérðu ekki að þarna koma einhvörjir bændur framan dalinn? Þegar þeir vóru komnir framhjá, settust börnin undir eikina, og hellti nú Hannes úr húfinni í keltu Maríu, en þau vissu ekki hvaðan á sig stóð veðrið er þau fundu ljómandi fallegan gullpeníng innanum skildíngana. [María hoppaði upp

af gleði og sagði: faðir fallegu barnanna hefir án efa gefið okkur hann! Hann hefir gert það af ógáti, svaraði Hannes, og nú verður veslings maðurinn frá sér þegar hann saknar gullpeníngsins. Hvað eigum við að gera, sagði systir hans, við verðum að færa honum hann aptur, svaraði Hannes, þau verða sjálfsagt í næsta þorpi í nótt og munum við eflaust finna þau í stóra gestgjafahúsinu. Ef við förum undireins af stað, þá getum við komist áleiðis og heim aptur í kvøld áður enn myrkrið dettur á.

Bornin hlupu nú til ømmu sinnar, og sögðu henni frá hvar komið var, og hvað þau hefðu í hyggju. Henni féllst vel á ráðvendni þeirra, fóru þau síðan að vørmu spori af stað til næsta þorps til þess, að færa eigandanum gullpeninginn.

Að einni stundu liðinni vóru þau komin þángað. Í dyrunum á gestgjafahúsinu mættu þau meðreiðarmanni høfðingja þess, er kom

á eptir manninum, sem var með börnin sín, og Hannes bað hann afboð vel um, að segja sér hvört hjónin með litlu börnunum væru þar eður ekki. Burt héðan ölmusu-krakkarnir ykkar, sagði meðreiðarmaðurinn, látið ykkur nægjast með það, sem þið eruð búin að fá, og reigsaði framhjá þeim; en á eptir honum hljóp ógnarlega stór og loðinn hundur, sem sópaði eplum og smákökum með rófunni ofan af dálitlu sölubordi, er stóð við dyrnar; átti það kerlíng nokkur sátæk. Hún atyrti meðreiðarmanninn af öllu kappi, en hvörki gaf hann því gaum né seppi hans. Aumíngja kerlíngin fór nú að tína saman eplin og kökurnar, og Hannes og María hjálpuðu henni. Hún bar upp nauðir sínar fyrir þeim, en þau sögðu henni frá, hvað illur meðreiðarmaðurinn hefði verið viðureignar. hefði hann atyrt þau, og kallað þau ölmusukrakka og kváðu sér þó eingan hug á, að fara sem stafkarlar og beið-

aft ølmusu, heldur væri þad eitt eyrindi þeirra, ad færa ferdamanni nokkrum þad, sem hann hafdi mist. Henrid þid, sagdi kerlíng, medan hún var ad þerra skarnid af eplunum sínum, þid hafid hjálpad mér, nú skal jeg hjálpa ykkur aptur; jeg er gagnkunnug í bæ þessum, og vil jeg nú vísa ykkur veg til manns þess, er þid spyrjid ad. Sídan sagdi hún þeim upp hvada stiga þau skyldu gánga, og ad hvada dyrum þau skyldu berja. Børnin gjørdu eins og kerlíng hafdi sagt þeim, og komust þannig fyrirhafnarlaust til hofdíngjans, sem þau leitudu ad. Nei, þarna er hann Hannes og hún María komin, søgdu børnin litlu, og urdu svo fegin ad sjá þau aptur. Hannes tók gullpeníng-inn upp úr vasa sínum, og bar fram eyrindi sitt. Þid erud væn børn og rádvønd, sagdi ókunni madurinn, og gæfan mun verda hlutskipti ykkar um alla æfi; gullpeníng þenna á jeg samt ekki, jeg hefi ekki haft neinn gullpeníng

á mér. Þá á hinn maðurinn hann, sem kom á eptir yður, sagði Hannes. Stofan hans er hérna við hlíðina, sagði höfðinginn, farið fram í ganginn og berjið á næstu dyr, þá mun verða lokið upp fyrir ykkur.

Börnin fóru þángað og börðu hægt að dyrum, þau biðu litla stund og börðu aptur; í því bili kom þjónustumaðurinn hlaupandi upp stigann. Snáfið á burt, óræstin ykkar! sagði hann, haldið þið að við getum fyllt alla sultarmaga? Við ætlum ekki að beiðast ölmusu, svaraði Hannes mjög einarðlega, við ætlum að færa húsbónda þínum aptur gullpeninginn, sem hann gaf okkur af vangá. Látið mig sjá hann, sagði meðreiðarmaðurinn. Hannes tók hann uppúr vasa sínum, þjónustumaðurinn greip hann þegar, skoðaði hann og sagði: það stendur heima, húsbóndi minn á hann, jeg skal færa honum hann, þarna er dálítið handa ykkur í fundarlaun! Hann gaf þeim fáeina skildinga og lét st ætla

að fara til húsbónda síns, en það fór þó fjarri að sá væri tilgángur hans, því hann ætlaði, svo lítið á bæri, að láta han renna í sinn sjóð. En ferðamaðurinn, sem alltaf hafði staðið í stofudyrunum til þess, að sjá hvørnig børnunum reiddi af, gekk allt í einu framm og kallaði til þjónustumannsins: heyrðu karl minn! svona má ei mál þetta lykta. Jeg þekki ráðgjafan, er þú þjónar, og hann þekkir líka dálítið til mín, jeg skal taka børn þessi að mér, og koma þeim á framfæri. Ráðgjafinn heyrði háreysti mikla fram í gaungunum og rak høfuðið út um stofudyrnar. Aðstoðarmaður barnanna gekk þegar til hans og sagði honum frá eyrindi þeirra. Þjónustumaðurinn þorði nú ekki annað enn fá ráðgjafanum gullpeníngiun og fór að bera í bætisláka fyrir sig með ósanníndum, en húsbóndi hans, sem laungu áður hafði haft orsøk til að tortryggja hann,

ávítaði hann harðlega, og lét hann í burt frá sér.

Raðgjafinn vék sér nú að Hannesi og Maríu; urðu þau nú sjálf að segja honum frá kotinu, ömmu sinni, bláberjunum, húfunni og gullpeníngnum. Börn mín, sagði hann, að sönnu var það í ógáti, að jeg gaf ykkur gullpeníngin, en nú megið þið eiga hann með réttu. Það er þó best jeg skipti við ykkur, og gefi ykkur penínga þá, er þið berið kennsli á. Síðan gaf hann þeim miklu meira af silfurpeníngum, en gullpeníngurinn var verður. Farið nú heim til ömmu ykkar, sagði hann, jeg fer á ári hverju fram hjá koti ykkar, þá getið þið komið út og sagt mér hvernig ykkur líður.

Börnin þökkuðu honum svo vel, sem þau kunnu, og réðu sér valla fyrir feginleik. Aður en þau fóru af stað vóru þau látin koma á fund við börn höfðingja þess, er talað hafði máli þeirra við hjón ráðgjafans.

Þau fengu nú miklu betri fæðu, enn að þau hefðu áðnr borið sér til munns þvílíka, og þaraðauki vasana fulla með hveitibrauð og kökur. En út yfir allt tók þó fagnaðarfundurinn, sem varð, þegar þau komu heim til ömmu sinnar með svo mikið fé.

Á heimleiðinni áði ráðgjafinn hjá kotinu, kom þá aldraða konan út með börnunum til að þakka honum fyrir velgjörðirnar við sig. En þegar hann kom árið eptir, var amma þeirra svo sjúk, að þau vóru hrædd um hún mundi fara að deya. Ráðgjafinn lét sér annt um, að hún fengi alla þá aðhjúkrun, sem varð, en börnunum sagði hann að koma til sín þegar hún væri dáin, og myndi hann ala önn fyrir þeim. Skömmu seinna urðu þau Hannes og María að skilja við ömmu sína að fullu og öllu í þessu lífi. Þau fóru nú á fund velgjörðamanns síns, hann kom þeim í fóstur, og lét þau nema

margt þarflegt, en þau vóru ráðvönd og góð alla æfi sína.

---

## Ráðvandur fløkkudrengur.

Fátæklíngunum, sem gengur á vegum guðhræðslunnar, ráðvendninnar og starfseminnar leggst alténd eitthvað til. Þetta sannaði hann Vilhjálmur S....... B.... frá Lundi.

Hann var ofur fátækur og lifði ekki á øðru enn því, sem góðir menn gáfu honum, en hann var líka sjálfur góður og frómur, og unni foreldrum sínum mjøg. Einusinni kom hann inní vørubúð hins ríka kornsølumanns, Samuels Rikters í Danzig, og bað skrifaran um ølmusu. Skrifarinn var í óðaønnum og sagði: það er ekki gefið neitt hérna, snautaðu burt letíngin þinn!

Æ! herra minn góður, gefið þér mér dálít-
inn bita, jeg er svo húngraður, jeg hefi ekki
fengið mat síðlángan daginn. Farðu burt
stráksinn þinn! sagði skrifarinn, en auming-
inn grét sögrum tárum og ráfaði burt.
Hvað gengur á? sagði Rikter, hann
hafði séð drenginn út um glugga, og gekk
út. Það er fátækur flokkudrengur, svaraði
skrifarinn, er beidist ölmusu. Þá laut
drengurinn niður rétt við dyrnar, tók eitt-
hvað upp af gólfinu, og gekk svo út hægt
og hægt. Heyrðu drengur minn! hvað
tókstu þarna? mælti Rikter hátt, og gekk
einarðlega að honum. Títuprjón, sagði
aumínginn grátandi, og snéri sér að kaup-
manninum, og sýndi honum sundinn. Rikt-
er komst við, og virðti nú fyrir sér dreng-
inn, sem stóð frammi fyrir honum berfættur
í striga-tötrum, með bláu augun full af
tárum, bleikur eins og nár. Hvað ætlarðu
að gjöra með títuprjóninn? sagði Rikter,

tók hann þá eptir því, að drengurinn, þótt hann væri ereigi, hafði þvegið sér í framan og um hendurnar. Drengurinn leit einarðlega framaní kaupmanninn, og svaraði: treyan mín er svo gotótt, jeg ætla að næla stærsta gatið saman með honum, þá heldur hún nokkuð ennþá. Rikter spurði aptur, og var hann þá ærið bistur: skammastu þín ekki að beiðast ölmusu svo lítill hnokki? Æ! herra minn, svaraði auminginn, mig lángar svo mikið til að vinna, en jeg kann ekkert, og er svo mannskapslítill, að jeg get hvorki unnið á akri né gert til kola; vesælingurinn hún móðir mín er bjargarlaus heima, faðir minn dó fyrir þrem vikum, og systkinin mín hafa ekki borið sér mat í munn í 2 daga; jeg þoldi ekki lengur að sjá hana móður mína gráta, jeg hljóp af stað, og nú hefi jeg leitað hjálpar hjá mörgum manni, en borið úr býtum svívirðíng eina og hallmæli; einginn hefir líknað mér nema bóndi einn,

hann gaf mér snemma í gærmorgun dálitla braudsneid, og sídan hefir hvorki vott né burt komid mér inn fyrir varir. Kaupmadurinn hafdi komist vid af hispurslausri en þó innilegri frásögu drengsins um hagi sína, tók gullpeníng upp úr vasa sínum, og sagdi: hérna er eitt gyllini, taktu vid! fardu og kauptu braud fyrir helmínginn handa systkinum þínum, og færdu mér svo afgánginn. Gódi herra! gud launi ydur fyrir mig, sagdi drengurinn, og kysti á hönd honum; vard hann þá feginn mjög og hljóp burt med peníngana. Þad hefdi verid nóg ad gefa honum áttskilding, sagdi skrifarinn! hann gjörir nú þaradauki gis ad ydur og hleypur burt med peníngana án þess, ad færa ydur afgánginn. Hvorr veit þad, svaradi Rikter, mér lítst vel á drenginn, mér líkadi hvad hann var hyrdusamur er hann tók títuprjóninn upp af gólfinu. Í sama vetfángi kom drengurinn eins og örskot med

stóra brauðköku í annari hendi, en peníngana í hinni. Takið þér við, góði herra! sagði hann með öndina í hálsinum, hérna er afgángurinn af peníngunum; nú bað hann um að ljá sér knif til að skéra sér eina sneið af brauðinu. Skrifarinn tók nú að verða smámsaman blíðari í orðum, og léði honum sjálfskeiðínginn sinn, og horfði hýrum augum á drenginn, hvað röskur hann var. Drengurinn var nú ekki seinn að skera sér sneið af brauðinu, en allt í einu leggur hann brauð og knif á gólfið, fórnar höndum og les borðsálminn með mikilli guðrækni! „allra augu vona til þín drottinn o. svo. frv.“

Frómlyndi drengsins, sem andséð var hann gjörði sér ekki upp, bernskulega hispursleysið og guðræknin, sem skein úr augum hans, fékk mjög á kaupmanninn; hann rendi huganum til æsku ára sinna hvörsu hann átti örðugt uppdráttar, til hjálpar þeirrar, er

gódir menn optlega hofdu veitt honum, tilgudds, sem haldid hafdi blessunarríkri hönd sinni yfir honum, og tárin runnu nidur eptir kinnum hans. Hann var ad virda fyrir sér drenginn, og var hýr í bragdi; en drengurinn matadist ámedan. Kaupmadurinn spurdi hann hvørra manna hann væri, hvar hann ætti heima, og hvornig módur hans lidi. Drengurinn sagdi honum allt sem var, og vard hann þess þá vísari, ad hann var frá þorpinu Lundi, er liggur 2 þíngmannaleidir frá Danzig, hofdu bændurnir úr þorpinu jafnan flutt korn sitt til borgarinnar til sølu; fadir hans hafdi átt dálítinn bæ, en misti hann í eldsbruna; honum hofdu viljad til mørg slis, hafdi svo allt gengid af honum, hann vard ad selja jørdina, og loksins gætti hann nauta fyrir nágranna sína, þá er ríkir véru, og fekk lítid kaup fyrir. Hann var þá andadur fyrir þrem vikum. Módir hans var ordin sjúk og stødd á bláhjarni med

fjórum smábörnum; hann hafði ætlað að leita hjálpar handa sér og sínum, hann hafði gengið úr einu þorpi í annað, síðan hafði hann komist á ferðamanna veginn, og loksins þegar honum var allstaðar útbýst, hafði hann komið til borgarinnar. Því lengur sem hinn göfuglyndi mannvinur hlýddi á ræðu drengsins, þess meira komst hann við. Hann er aðgætinn, ráðvandur og frómlundaður — hugsaði hann með sjálfum sér –– hefir ást á móður sinni, og lítur svo út, að hann sé vel víti borinn; það er undirstaða, sem á má byggja; jeg er maður auðugur og á eina dóttur barna –– guð vill jeg hjálpi honum fyrir svo margar velgjörðir, er hann hefir mér veittar. Heyrðu drengur minn! sagði hann, lángar þig til að læra nokkuð? Æ, já –– svaraði drengurinn, og varð feginn mjög –– til þess lángar mig, góði herra! jeg get líka lesið í kverinu mínu. Hann

tók nú dálitla bók upp úr vasa sínum, lauk henni upp, og las nærri því reiprennandi: heiðra skaltu föður þinn og móður þína, svo þér vegni vel, og þú lifir lengi í landinu.

Góði herra, þetta nam jeg ígær á meðan jeg hvíldi mig undir eik nokkurri við veginn; en lengra er jeg ekki kominn ennþá; því heima varð jeg alltaf að bera hann litla bróður minn, þareð móðir mín lá sjúk á bálmfletinu sínu. Þá sagði Rikter: jeg ætla að vera faðir þinn, veslingur, og kosta hann á ennið, ef þú vilt vera ráðvandur og yðinn, þá skal jeg sjá fyrir þér. Þú skalt nema nokkuð, fá mat og drykk, klæði og skæði, og þegar þú ert orðinn þroskaður, og getur ábatast á einhverju, þá getur þú styrkt móður þína og systkini, og þannig breytt eptir guðs boðorðum. Ó! það er gaman, kallaði drengurinn hástöfum, hljóp upp um kaupmanninn og kysti á hend hon-

um, frá sér numinn af fögnudi. En hún módir mín, sagdi hann, hefir ekki fengid neina björg enn þá, og leit alltíeinu svo raunalegur á kokuna, er hann hafdi skorid sneidina af. Kaupmadurinn huggadi hann, og lofadi ad senda módur hans braud og peninga med bónda einum úr þorpinu er hann var fæddur í, og láta segja henni, ad Vilhjálmur litli, sonur hennar, skyldi nema eitthvad þarflegt. Skrifarinn vard nú ad rita bréf til prestsins; Rikter sendi konunni peninga innaní brefinu og fól hana presti á hendur, og hét med fyrstu ferd ad senda henni meira. Drengnum vóru nú gefin falleg føt, en um midmunda fór Rikter med hann til konu sinnar, bad hana ad annast hann, og sagdi henni hvad hann hefdi í hyggiu med hann.

Svona gódur var nú hagur Vilhjálms ordinn fyrir sakir hreinskilni hans, ástar til módur sinnar, hyrdusemi og einlægrar gudrækni. Med mótlætingunum og fødur

missirnum hafði hinn alvísi guð sýnt því þannig, að Vilhjálmur komst til hins góða manns, og að fátæktin og báginðin urðu orsök til hamingju hans. Um 6 ár átti Vilhjálmur sældar daga, 4 af þeim var hann settur til menta, og aflaði hann sér með ydni og góðu námi frábærrar þekkingar. Móður sinni gjörði hann allt gott, sem hann gat, og sleit aldrei trygðir við hana. Helmínginn af skotsilfri því, er fóstri hans hafði gefið honum á viku hvörri um nokkur ár, til að skemta sér fyrir, hafði hann sendt móður sinni; var nú hagur hennar genginn til batnaðar af aðstoð þeirri, er hinn góði prestur og kaupmaðurinn höfðu veitt henni, og hafði hún sómasamlega ofanaf fyrir sér með vinnu sinni. Um 2 ár hafði Ritter vanið drenginn við kaupskap; var hann nú 16 vetra og bar af flestum jafnaldra sinna í trúmennsku, kostgæfni og góðu skipulagi í öllu athæfi sínu. Fyrir hinn helmínginn, sem Vilhjálm-

ur hafði geymt til seinni tíma, keypti hann ófágaðar penna fjaðrir, og hafði hann numið þá list af nágranna sínum, manni nokkrum frá Hamborg, að fága þær, og seldi þær svo fyrir dágott verð, en þó með ábata sínum, og af þessu óx peninga-sjóður hans allt að 120 ríkisdølum. Rikter þókti vænt um hagsýni drengsins, og hvatti hann enn þá meir með því, að gefa honum meira fé, og ljá honum lítið af peningum í senn, en Vilhjálmur galdt aftént á réttum skildaga. Einusinni sem optar sókti hann heim móður sína; varð hann þá áskynia þess, að fá mátti tøluverdt af gódri ull og hør fyrir lítið verð í þorpi því, er hann var fæddur í; bað hann nú fóstra sinn að ljá sér 200 dali til þess að verda ekki af kaupunum.

Rikter þótti vænt mjög um gródahugann í drengnum, og lédi honum peningana. Fyrirtæki þetta heppnaðist vonum framar, svo Vilhjálmur átti þegar á þriðja ári 500

ríkisdali. Peninga þessa tók fóstri hans, keypti fyrir þá ýmsan varnad, og ádur en ennur þrjú ár vóru lidin, átti Vilhjálmur 1500 dali.

Þegar lidinn var ákvedni tíminn, og honum hafdi Vilhjálmur varid til þess ad nema allt þad, er vidvíkur verdslun og kaupskap, giordist hann sölusveinn, og héldt áfram í 5 ár med atorku og ydjusemi ad vinna fóstra sínum í hag, og vard skömmu seinna skrifari ad hinum fyrrveranda lidnum, og þremur árum þaráeptir gjördi Rikter hann ad félaga sínum og gaf honum þridjúng alls ágóda. — Híngadtil hafdi Vilhjálmur ríflega hjálpad módur sinni og brædrum, en nú dóu 2 af þeim, og módir þeirra nokkru seinna. Valla hafdi hann látid af harmi eptir módur sína og brædur, þegar annar og eins sár missir barst honum ad höndum. Hann fóstri hans gódur hafdi legid rúmfastur í 2 ár; allt þad, sem trúmennska, ást, umhyggja,

aðhjúkrun og þakklátsemi getur annað, lét Vilhjálmur ekki áskorta í öllunn hótum við höfund hamingju sinnar, til þess að gjöra hann fullvissan þess, að velgjörðum hans hefði ekki verið sáð í illan akur. Aldrei lattist hann á að rækja skyldu sína í kaupverðslunninni; á öllu hafði hann augun, þó vakti hann á næturnar hjá fóstra sínum. Hann andaðist hálfsjötugur, en á banabeðnum lagði hann, áður enn hann létist, höndina á Henríettu dóttur sinni í höndina á Vilhjálmi. Hún var tvítug að aldri. Vilhjálmur grét tárum ástarinnar, hriggðarinnar og þakklætisins þegar hann kvaddi tengdaföður sinn og göfuglynda velgjörðamann, og veitti honum nábjargirnar.

Árið 1789, tíu árum eptir lát Rikters þókti ekkert kaupmanns bú í Danzig jafn gott og blómlegt sem Vilhjálms; hafði hann erft Samuel sáluga Rikter. Með sonarlegri ást og umhyggju hjúkraði hann að

tengdamódur sínni þartil er hún audadist; hafdi hún þá tvo um sjøtugt.

Guds blessun var audsjáanleg yfir **Vilhjálmi** og øllum fyrirtækjum hans; kaupverdslun hans blómgadist meir og meir; en eins og eingum er alls varnad, svo er eingum allt gesid, forløgin urdu ad minna hann á, ad einginn manna gæti verid fullsæll á jardríki: honum vard ekki barna audid.

Af því þad leit svo út, sem gud ætladi ekki ad veita honum neina fødurgledi, þá tók hann til sín tvø eldstu børn brædra sinna, er hann hafdi haldid undir skírn og arfleiddi þau eptir sinn dag. Í hardæri nokkru hjálpadi hann fjølda miklum þurfamanna, og ótal þakklátra bæna sté til himna fyrir hann frá sveitarómøgum og umkomuleysíngjum, er hann gaf á ári hvørju bædi korn, vín og peninga. Aldrei var hann stórlátur af gæfu sínni, og altend rendi hann huganum til bágindasínna medan hann var í fødurhúsum og til guds

furdulegu handleitslu. Það gljáði á heilla-drjúga ríluprjóninn í klæðiskjólnum hans eins og fyrrum í erminni á strigatreyunni sem æfaranda menjagrip; hafði hann gjört þá rádstøfan, að prjónninn skyldi gánga í erfdir mann frá manni, ogskyldi hinn eldsti af ætt-íngjum hans jafnan bera hann í føtum sín-um. Optlega begar hann stód upp undan bordum og þakkaði gudi fyrir það, hvorsu þáfamlega hann hefdi leidt sig úr fátækt til audæfa, var hann vanur að mæla svo, og blotnaði honum þá hjartað í brjósti: sjáið børn mín, drottinn veitir þeim optlega miskun, sem hafa ást á honum! Jeg var fátækur, já bláfátækur, en jeg breytti eptir vilja guds, jeg hafdi hann ávalt mér fyrir augum, jeg var rádvandur og starfsamur; þessvegna hefir hann blessað mig.

Hlýðið í audmýkt bodum hans enum alvísu, og óranfakanlegu rádstøfunum! En viljið bið dýrka hann réttilega, þá hafið ást til náúnga

ykkar, verid atorkusöm í þvi ad rækja skyldur ykkar, og hjálpid hinum fátæku, þá mun blessan drottins eilíflega vera yfir ykkur, børnum ykkar og barnabørnum.

Þannig réttir hinn alvísi og gædskuríki fadir á himnum hjálparhønd fátæklingunum, þeim er brada veg gudhrædslunnar, og leggja allt stund á rádvendni og ydjusemi.

---

## Nýársgjøfin.

„Høllin mín er búin"! sagdi Júlíus litli (hann var þá á 12 árinu) og néri saman høndunum stirdum af kulda er hann horfdi mjøg ánægdur á bréfahøllina, sem hann þá var búinn ad koma upp, og hafdi vel tekist. Yngri systkinin høfdu endrum og sinnum adstodad hinn litla husasmid, og þókti þeim nú

ekki síður vænt um hallarsmíðið enn honum. Høllin var fögur á að líta; á henni vóru bustir, stoplar og turnar gylliroðnir; innan øllu vel niðurskipað, og vóru á þrennar gluggaraðir hvør upp yfir annari.

Jeg fæ að minsta kosti 4 ríkisdali fyrir hana; heldurðu það ekki líka, faðir góður? sagði Júlíus og var kátur.

Að vísu hefir þú unnið til þeirra, drengur minn, svaraði faðir hans, fyrir átta vikna starf; en jeg efa þó, að þú fáir svo mikið. Á morgun er aðfángadagur Jóla, og nú þegar eru flestir búnir að afla þess, er hafa þarf til hátíðarinnar. Ef þú hefðir verið búinn með høllina viku fyrr, þá hefðir þú getað ætlast til að fá meira fyrir hana; en hvør veit nema mønnum kunni að líka vel smíði þitt og þú fáir meira fyrir enn við höldum. En flýttu þér nú að skila høllinni, því tíminn er naumur!

Júlíus lét nú höll sína, er hann hafði átt býsna örðugt með að smíða, í körf eina eigi litla, er móðir hans léði honum, og gekk nú með byrðina í búð kaupmanns nokkurs, er verðlagði barnaglíngri; þar var Júlíus vanur að selja smíðar sínar. Gústaf og Berta litu sakuaðar augum eptir höllinni er hún var útborin, því hún var svo fögur og þeim hafði verið svo mikil skemtun að henni; svipir þeirra lýstu því berlega, að þeim féll þúngt í geð, að hljóta að sjá á bak svo ágætu leikfángi.

Það var farið að rökkva, er Júlíus hljóp, eins og fætur toguðu, ígegnum fjölmennu strætin í Hamborg til búðarinnar, er var býsna spöl frá heimili hans.

Nú víkur sögunni frá honum um stund, og til Helvígs, (svo hét faðir hans) svo þið fáið að heyra hvörsu honum leið.

Helvígur var maður fátækur en ráðvandur, og hafði hann híngað til haft ofan

af fyrir sér með rokkasmiði. Annar maður, er og var rokkasmiður, sveik Helvíg svo, að hann komst nærri því á vonarvöl og hélt hann þó að hann væri besti vinur sinn.

Það bar svo til, að maður þessi kom til Helvígs af því hann vissi, að hann hafði dregið saman nokkra peninga, og bað hann ljá sér 300 dali til þess hann fengi keyptan við, er hann létst eiga kost á, að fá við gjafverði, og sagði sér lægi á þessu skotsilfri til þess, að verða eigi af kaupunum; hann lofaði að gjalda féð að nokkrum vikum liðnum, og hét Helvígi, er hann nefndi „besta vin sinn," sama liði nær sem honum á lægi. Helvígur, er var góðmenni og ekki grunaði nein svik, fékk vini sínum, sem hann trúði, fé þetta, er hann hafði dregið saman með miklum ötrugleik, og þareð hann reiddi sig á loforð hins, þá hafði hann ekki við svo mikla varúð, að hann

léti hann rita skírslu fyrir því að hann hefði þegið féð að láni.

Viðarkaupin, er hinn hafði ætlað sér að ábatast á, fóru svo, að hann hafði á þeim túman hundrað dala skaða. Nú hugsaði mannfýlan að nýta sér óaðgætslu vinar síns og steypa honum í ólán, svo hann yrði eigi þreigi sjálfur; því þegar Helvígur fór til hans, að 2 mánuðum liðnum, þá þverneitti hann því, að hann hefði fengið fé að láni hjá honum, og þar Helvíg skorti öll skírteini til þess hann gæti komið upp um hann svikunum, þá átti hann nú ekki annars kosti enn að láta sér það lynda að hann fengi aldrei aptur fé það, er hann hafði samandregið með sliti, og jafnan haldið helsta athvarf sitt, er í nauðirnar ræki. En hið svívirðilega óþakklæti, er hann þannig mætti fyrir greiðvikni sína, sveið honum sárt; og þótt fjármissirinn legðist þúngt á hann, þar hann átti að sjá fyrir

fjølmennu heimili, þá féll honum þó sárast, ad sá madur sveik hann, er hann hafdi haldid vin sinn. Utaf øllum þessum raunum lagdist hann í sótt, lá rúmfastur í 12 vikur og var lengi daudvona. Þó komst hann loks á fætur aptur, og átti hann þad helst ad þakka gódum lækni og addáanlegri adhjúkrun konu sinnar og barna.

Í legunni vard hann þó næstum øreigi og jafnvel svo mjøg hafdi þreyngt ad honum, ad hann vard ad farga nokkrum smídatólum til þess ad geta keypt mat handa heimilinu. Samt sem ádur féllst honum eigi hugur af því hann átti þann dýrgrip í eigu sinni, er einginn svikari gat frá honum tekid, en þad var medvitund þess, ad hann jafnan hafdi gjørt skyldu sína eins og gódum manni sæmir.

Nú leid ad jólum. Þó Helvígur væri farinn ad hressast, þá þordi hann samt ekki ad taka til smída sinna af því læknir-

inn hafdi bannad þad. Börn hans leitudust vid ad hafa ofan af fyrir heimilinu med þeim hætti, ad þau smídudu ýmsa gripi úr þykkum bréfum og seldu þá sídan. Þetta fékk Helvígi ekki lítillar gledi, væri þókti honum samt um eldra son sinn af því hann var sérlega lagtækur í hendunum. Ad sönnu þókti Helvígi illa, er hann ekki gat gefid bernum sínum jólagjafir eins og hann var vanur; þó hélt hann þau mundu geta skemt sér allsæmilega á jólanóttina þared Júlíus hafdi unnid nokkra peninga á hendur sínar, og vissi hann ad drengurinn mundi ekki dragast undan ad veita systkinum sínum jólagledi fyrir þá.

Nú víkur sögunni aptur til Júlíusar. Þar var fráhorfid er hann, hljóp í gegnum strætin og flýtti sér hvad hann mátti til búdarinnar.

Kaupmadurinn var ad láta utanum ýmsa smágripi, er höfdíngi nokkur hafdi keypt, sem

stóð í búðinni þegar Júlíus kom, og kallaði kaupmaður til hans, að hann skyldi bíða í anddyrinu með ruslið sitt þángað til hann væri búinn. Júlíus varð að hlýða þótt hann væri óþolinmóður, og beið hann nú þess, að kaupmaðurinn, er ekki hafði tekið honum sérlega vel, gæfi sér inngaunguleyfi; en það fékk hann eigi fyrr, en eptir fjórðúng stundar, þegar allir kaupanautar vóru farnir. Í því bili Júlíus gekk inní búðina rak, hann fótinn í eitthvað hart, og er hann gætti vandlegar að, fann hann troðfulla peníngapýngju úr grænu silki og þóttist hann hafa séð hana litlu áður í höndum höfðíngjans. Herra Weiss, svo hét kaupmaðurinn, atyrti Júlíus fyrir það, að hann kom svo seint með smíðar sínar, og kvaðst ekkert geta gjört við þær; þó bauð hann að sýna sér smíðið. Það datt ofanyfir hann, er hann sá hvörsu fagurt það var, þó lét hann ekki á því bera

er hann sá að smiðnum var umhugað að selja það. Júlíus krafðist 6 ríkisdala fyrir hollina. Veiss létst verða hissa, og sagði hann mætti láta hana í körfina aptur og leita annars kaupanda. Hann fann nú hitt og þetta að smíðinu, og bauð loks fyrir það 2 dali. Af því Júlíus vissi hve bágur var hagurinn heima, þá hlaut hann að selja hörkutólinn hollina sína við þessu gjafverði, er naumast var meira, en efnið hafði kostað, og fekk svo lítið sem ekkert fyrir alla fyrirhöfnina. Hann fór grátandi út úr búðinni; hann hafði svo mjög hlakkað til þess, að geta gladt föður sinn og móður á jólunum; hann vissi líka, að systkini sín gátu ekki fengið neitt á þessu ári, og lángaði hann til að skemta þeim af því þau höfðu unnið svo kappsamlega með honum að smíðunum; en hvað átti hann nú að kaupa fyrir eina 2 ríkisdali, og það því heldur, sem hann hafði ætlað föður sínum helmínginn í

skotsilfri? Nú datt honum í hug fundna pýngjan; hann dróg hana upp og héldt henni við birtu, sá hann þá að hún var full og tómir gullpeningar í henni.

Heyrum við, hugsaði hann með sjálfum sér, einn þeirra mundi þó eigandinn gefa mér í fundarlaun, er jeg færði honum pýngjuna; taki jeg peninginn fyrirfram, þá get jeg veitt foreldrum mínum og systkinum óvænta jólagleði. En naumast var hann búinn að mæla þetta með sjálfum sér, er hann roðnaði af minkun, því samvitskan sagði honum, að það væri órétt að taka nokkra ögn af því, er aðrir ættu. Hann stóðst freistnina, og lét peninginn aptur niður í pýngjuna. Hann ráðgaðist nú við sjálfan sig hvernig hann skyldi verja peníngunum, er hann hafði ætlað í jólagjafir. Hann hafði heyrt læknirinn segja, að gott vín væri föður sínum hollt til að hressa hann; hann keypti því hálfa aðra mörk víns fyrir dal;

fyrir hinn helmíngin keypti hann skrifstokk og fallegt nálahús; fyrir fáeina skildínga keypti hann epli, nytur og sætabrauð; þetta lagði hann nú vandlega í körfina, og er hann leit á vöruna, varð hann aptur kátur og flýtti sér heim.

Hann sagði foreldrum sínum og systkinum frá öllu hvörnig farið hafði, og kendu þau öll í brjósti um aumíngja húsasmiðinn litla, er hann varð að láta höllina sína, sem hafði kostað hann svo mikla fyrirhöfn, við svo litlu verði. Gústaf litli varð stórreiður út af hörkunni hans Veiss, og kallaði það mestu mínkun, að hafa svona launin af drengaumíngja fyrir starf hans, en faðir hans kvað það í sjálfs valdi hvörjum manni, að bjóða svo mikið eða lítið, er honum sýndist í það, er honum væri boðið að kaupa. Meðan Helvígur var að mæla þetta við úngri börnin, bar Júlíus á borð með móður sinni á bak við föður

sinn, og lagdi það fram, er hann hafdi keypt; sídan sókti hann ljós, og bad svo fødur sinn og systkini ad koma. Þau urdu øll hissa, og það því fremur, er þau ekki hofdu búist vid ad fá neitt til hátídabrigdis. Húsmódirin, sem hafdi meiri kvída fyrir komandi tímanum enn madur hennar, var nú glød og skemti sér. Hvørr mundi ætla, mælti hún, og brosti vid, ef menn sæu okkur herna ad ekki væri nema einn ríkisdalur til á bænum, og vid vissum ekki hvadan á ad taka meira til þess, er vidþarf?

Bitti nú, jeg var nærri búinn ad gleyma því, sagdi Júlíus, þú getur skakkt til, módir mín gód! hér eru miklir peníngar á heimilinu; skodadu ad tarna! og í því dróg hann upp hjá sér peníngapýngjuna; allir urdu hissa, er þeir sáu Júlíus halda á svo stórum sjód. Nú vard hann ad segja frá því, hvørnig hann var ad honum kominn. Þegar Helvígur heyrdi ad sonur sinn

hefdi fundid sjódinn, mat hann þad skyldu sína, ad gánga næsta morgun til fréttastofunnar, (þar var prentad fréttablad med degi hvørjum) er var skamt frá húsi hans, og bad hann ad prentud væri og sett í tídindin þessi auglýsing: „sjódur er fundinn, og má sá, er týnt hefir, vitja hans ef hann sannar, ad hann sé réttur eigandi og borgar prentun þessarar auglýsingar.“

Nú lidu nokkrir dagar og einginn leiddi sig ad sjódnum. A gamla árs kvøld var Helvígur í stofu med konu sinni og børnum, og rædði vid þau um árid, sem þegar var lidid, og verid hafdi svo markverdt fyrir þau; þá var barid ad dyrum og var þar kominn høfdingi, er spurdi ad Helvígi rokkasmid. Helvígur sagdi til sín, og adkomumadur kvadst vera sá, er sjódinn hefdi mist; hann lýsti honum svo vandlega, ad einginn efi gat leikid á því, ad hann væri réttur eigandi; húsmódirin

sókti ljós, og aðkomumaður taldi peníngana, og sá að eingan vantaði. Síðan mælti hann við Júlíus: eg finn til þess, góður drengur! að þú átt mikið að mér, og mér fellur það sárt, að eg get ekki launað þér sem og vilda; því er miður að högum mínum er svo varið, að eg verð að fara halda sparlega á fé þessu, því í raun réttri er það ekki mín eign; eg má ekki gefa þér meira enn einn ríkisdal í fundarlaun; það væri rángt gjört að farga meiru; en hlýði þið nú sögu minni, svo þið haldið eigi, að eg sé ágjarn. Fyrir fám dögum mátti kalla mig auðmann, en nú er eg öreigi, því kaupmanna félag nokkurt, er eg átti töluverð viðskipti við, er nú komið að þrotum, og hafði eingan grunað það, svo eg hlýt einnig að hætta að gjalda þeim, sem eiga fé hjá mér. Eg á valla svo mikið eptir með fundna sjóðnum, að eg geti goldið félitlum handyðna mönnum lítilræði, er þeir eiga hjá

mér. Þú sér því drengur minn, að heilög skylda býður mér að halda spart á fé þessu, eg get því ekki boðið þér þau fundarlaun, sem þú átt skilið; og eg verð að játa það, að mér kæmi það ofurvel, ef eg þyrfti ekki að gjalda þér neinn greiða þann, er þú sýndir mér, og ef þú gætir fengið af þér að gefa mér upp ríkisdalinn, er eg bauð þér í fundarlaun, og lætur þér nægja, að eg gjaldi fyrirhöfnina. Eg bið þig þess enn þá einnusinni, að íhuga það, að fé þetta í rauninni ekki er mín eign, heldur fátæklinga, sem eru vel að því komnir. Aðkomumaður leit nú á Júlíus, eins og til að reyna hann, enn Júlíus kvaðst óðara eingin laun vilja þiggja, og þá kom gleðibragð á hinn. Guði sé lof fyrir það, mælti Júlíus, að eg hratt frá mér freistingunni, og tók ekki einn af gullpeníngunum. fyrir fram til þarfa okkar, og mat það ekki rétt, að eg ætti skilið, að fá svo lítinn hluta

í fundarlaun. Hann sagdi sídan frá því, hvad þad hefdi verid, er leiddi hann í freistnina, og ad sú hefdi verid ætlan sín, ad gledja foreldra sína og systkini. Adkomumadur komst vid, tók í hönd honum, og kvad þad eigi litla heill födur hans, ad eiga þvílíkan son. Brátt kom kunníngsskapur á milli höfdíngjans og hinna, og eigi leid á laungu ádur hann var þar eins og heima hjá sér, og kynnti sér allar heimilisstödvar. Hann var læginn á þad manna best, ad koma ödrum mönnum til þess, ad gjörast vid sig einlægir og hreinskilnir án þess hann trædi sér uppá þá. Mesta yndi hans var ad tala vid Júlíus, því honum líkadi vel, ad hann var hispurslaus og hreinskilinn í dagfari. Yngri systkinin sögdu höfdíngjanum frá því, hve litid Júlíus hefdi fengid fyrir höllina, og hvörsu fallega hann hafdi varid andvirdinu, en kvörtudu þar hjá yfir hörku herra Beiss kaupmanns-

ins. Ojá, herra minn gódur, mælti Júlíus, ef eg hefdi fengid meira, þá skyldum vid hafa átt betra á gamlaárskvøld enn vid eigum nú; þá hefdi hún módir mín bakad handa okkur eplakøku, og hann fadir minn hefdi líka fengid vín, því læknirinn segir þad sé honum svo hollt til hressíngar; en nú verdum vid eins og þér sjáid, ad láta okkur nægja jardepli med hýdinu á. Gud veit hvert vid ætíd getum fengid þau á nýa árinu, sagdi módir hans, og gat valla komid upp hljódunum fyrir kjøkri; þad lítur ekki ennþá út til þess, ad vid getum unnid nokkud á hendur okkar. Láttu ekki óþolinmædina koma þér til ad syndga, kona góð! mælti Helvígur med alvorubragdi. Gud lifir enn, hann mun eigi yfirgefa oss ef við látum ekki hugfallast; gjørum þad, sem í voru valdi er, og reidum oss uppá hann med øruggu trausti; hann, sem elur ønn fyrir fuglunum í loptinu og blómstrum jard-

atinnar, mun vissulega mikla sídur gleyma bornum sínum.

Konan, er fann ad sannleikur orda þessara átti vid, rétti manni sínum hondina, þegjandi, kannadist vid yfirsjón sína, og vard brádum kát aptur.

Komumadur kvaddi nú hjónin og bornin, er sátu þarna eptir í fátæktinni og þó ánægd, en hann hét því ad vitja þeirra aptur.

Bornin bádu nú fodur sinn leyfis, ad vaka þángad til árid væri á enda, og þegar sigurverkid bodadi sídustu stundina, súngu þau sálminn: **Eitt á enda ár vors lífs er runnid**, o. sv. frv.; ad því búnu baud hvort odrum góda nótt, og óskadi gledilegs nýárs med handabandi.

Þad lá líka fyrir þeim, ad árid yrdi þeim gledilegt. Á nýársdagsmorgun, er menn vóru risnir úr rekkjum, var barid ad dyrum. Helvígur gekk til dyra til ad

vita hvørr það væri, sem hefði erindi við sig svo snemma dags. Það má geta nærri, að honum muni hafa orðið hverft við, er hann hitti þar velbúinn höfðingja þjón, sem bar bréfahöllina hans Júlíusar, og setti hana á borð í anddyrinu, óskaði gleðilegs nýárs og gekk leið sína. Helvígur skýtti sér að kalla á konu sína og börn. Það má geta nærri, að börnin hafi orðið forviða, er þau litu aptur höllina, sem þau ekki höfðu búist við að sjá framar, og þeim hafði fallið svo sárt við að skilja. Allir munu geta skilið hvaðan sendingin kom; hún kom frá gestinum, er hafði látist vera fátækur, en í rauninni var auðmaður.

Nú fór Júlíus að skoða smíði sitt, og fann hann þá inni höllinni silkipýngjuna, er hann þekkti svo vel, og leit nú út sem hún væri enn þá fyllri enn um kvöldið er hann fann hana. Hann dróg nú fram pýngjuna og taldi úr henni 50 spesíur; hjá

sjóðnum lá sedill og var ritad utaná hann: „til Júlíusar," og efnid var svona:

Júlíus minn gódur!

„Fyrirgesðu mér gódi vinur ad eg létst vera fátækur madur igær til ad reyna þig. Þiggdu nú þad, er sedlinum fylgir í nýársgjöf. Eg efa ekki, ad þú munir verja því sómasamlega. Berdu foreldrum þínum og systkinum kæra kvedju mína. Brádum skal eg tala vid þig sjálfur."

vinur þinn
Þórdur Holdur.

Einginn fær útmálad gledi þá, er vidburdur þessi fékk þeim, er adnutu. Helvígur sá sig nú á svipstundu ordinn efnamann, þarsem hann var bláfátækur fyrir skömmu; því ekki þarf þess ad geta, ad Júlíus hélt ekki sénu sjálfur, heldur færdi

hann bað foreldrum sínum, er þurftu á því að halda.

Herra Holdur efndi heit sitt. Sama dag sókti hann Hélvíg heim, og sagði nú frá því, að hann hefði keypt hollina að honum Veiss fyrir 20 dali í gærkvöld, svo hann gæti sendt smiðnum hana í dag. Upp frá þessu veitti Holdur Helvígi og hyski hans mikið lið, og inanskams var hann búin, að útvega Helvígi nóg að smíða; en annast var honum þó um Júlíus. Hann lét kenna honum húsasmíði, og sendi hann síðan til Rómaborgar til þess hann fengi að sjá fegurstu meistarasmíði vorra daga og fornaldar; og nú er Júlíus einn hinn mesti húsasmiður á öllu Þýdskalandi, situr hann þar í hofuðborg einni virðtur og mikilsmetinn hjá kónúngi sínum. Faðir hans, sem nú er orðinn fjörgamall, er siánægður og jafngeðja, og

setur sem fyrr allt traust sitt á guðs forsjón.

---

## Niðursetníngurinn.

Á bæ nokkrum í Rángárþíngi vóru bónda synir tveir, Hallgrímur og Olafur; þeir vóru 12 vetra. Olafur var tökubarn, hafði hreppstjórinn komið honum þar fyrir eptir lát móður hans, er lengi hafði þegið sveitarstyrk.

Einn blíðan sumardag vóru þeir að glímum úti á túni, og hafði Olafur ekki við þótt þeir væru jafnaldrar. Hallgrímur var eptirlætisbarn foreldra sinna, hafði allt, sem hann vildi hendinni tilrétta, og var orðinn stór og sterkur, en Olafur hafði alist upp við sult og seyru, samt var hann miklu þraut-

betri til vinnu enn Hallgrímur, því hann hafði vanist við fleira. Þegar þeir vóru búnir með 10. glímur, og Olafur hafði ekki staðið Hallgrími einn snúníng, settist hann niður á þúfu, og grét fögrum tárum, því honum féll það þúngt, að bera lægra hlut fyrir jafnaldra sínum. Meðan Hallgrímur stóð hróðugur og hlæandi upp yfir honum, bar þar að stafkarl, totralega búinn; hann heilsaði drengjunum, og spurði hvört hann myndi fá að borða ef hann kæmi heim á bæinn. Hallgrímur gall undireins við, og sagði: hér koma svo margir flökkumenn, að þeir ætla að jeta hann föður minn út á húsgáng, farðu til næsta bæar og sníktu þar; vera má þú fáir þar eitthvað til að sletta í vombina á þér!

Tárin hrukku nú úr augunum á karltetrinu, en Olafur grét ekki lengur yfir vanmætti sínum, heldur yfir bágindum stafkarlsins, þareð hann hafði reynt hvað sárt það

er, að vera húngraður, og geta ekki fengið eitt að nærast á. Hann sagði nú við flekkumanninn: komdu heim með mér, maður minn, jeg á eptir í hálfum askinum mínum, þú getur fengið það, mig minnir líka jeg eigi dálítið silúngsstikki, sem húsmóðir mín gaf mér í morgun fyrir það jeg var svo fljótur að sækja eldinn fram að B.... þótt við sjálft lægi, að jeg kæmi eldlaus heim aptur; jeg vissi ekki fyrri til, enn fatan logaði upp í höndunum á mér. Guðsást fyrir mig, piltur minn, sagði karlinn, mér er þökk á öllu því, sem þú getur gefið mér. Hann fór nú heim að bænum með drengjunum, en allt fólkið var á engjum nema húsfreya. Hann settist á bæar þröskuldinn, en Olafur hljóp inní baðstofu eptir askinum sínum og silúngsstikkinu, og færði honum. Hallgrímur var sífelt þurr og önugur við karlinn, og nærri lá, að hann ávítaði Olaf fyrir góðmennskuna. Flekkumaðurinn varð þess

áſkynja, og tók ſvo til orda: eg ætla ad ſegja þér ágrip af æfiſøgu minni, drengur minn, til þeſs ad vita hvørt þér renna ekki til rifja bágindi mín og aumíngjaſkapur, og til þeſs ad ſannfæra þig um, ad eg ſé ſannur þurfamadur: í hardindunum um árid átti eg hundrad hundrada í jørdum; eg bjó í þjódbraut og komu margir, er bádu mig um húſaſkjól; eg úthýſti eingum, og eingan lét eg húngradan frá mér fara; en nú fór mig ſjálfan ad breſta bjørg, er eg vard ad ſkera ſkepnur mínar nidur, og hvørgi fekkſt hey handa þeim; nú ſeldi eg vid litlu verdi eina jørdina mína, fyrir þad keypti eg matvæli, en þeirra naut eg eigi einnſaman: fólkid floſnadi upp og kom hópum ſaman til mín, því ſá ordrómur lék á, ad eg væri efna-madur og undereins greidugur vid fátæka og umkomuleyſíngja; eg héldt þad ſkyldu mína ad hjálpa og adſtoda náúnga minn medan eg ætti nokkud til, og hugsadi eg med ſjálfum

mér; jafnvel þótt eg hafi með atorku, fyrirhyggju og sparsemi aflað mér töluverðra fjármuna, þá hefi eg samt þegið allt af guði, og mun hann ekki hafa gefið mér það, sem eg hefði afgángs frá nauðsynjum mínum, til einkis. Eg seldi hverja jörðina á fætur annari, í stuttu máli, allar eignir mínar, fyrir matbjörg bæði handa mér og öðrum; fólkið dó hrönnum saman; ástúðlegustu vinina mína missti eg — konu og börn — einn stóð eg eptir á grafarbarminum allslaus og átti eingan að nema þann, er gaf og burttók. Í átta ár hefi eg farið manna ámilli, uppgefinn og ellihrumur; einginn hefir viljað skjóta skjóli yfir mig, jafnvel ekki þeir, er eg hafði líknað í harðindunum, og sem nú eiga gett bú og björg mikla; aldrei hefi eg lifað glaðari stundir, enn meðan eg gaf og sá þakklætis tilfinnínguna skína úr augum aumíngjanna, en nú er eg búinn að reyna hve sælla það er að gefa enn þiggja. Þurfa-

madurinn þagnadi, tárin hrundu nidur eptir kinnum hans; en Olafur fór út í horn og grét þar.

Hallgrímur segir nú vid gamalmennid: mikid er hvad ykkur flökkumönnunum tekst upp ad ljúga til þess menn líkni ykkur.

Öldúngurinn mælti: ad vísu er þad ekki ætid audvelt ad sjá hvörr sannur þurfamadur er edur ekki, og ekki sá eg þad alténd þó eg reyndi til ad komast eptir því, en mér runnu þá til hugar ord Krists: „hvad þér viljid ad menninir gjöri ydur, þad eigid þér líka þeim ad gjöra."

Hallgrímur snautadi burt hardur og kaldur eins og ádur, en öldúngurinn, sem ekki vissi hvad ordid var af Olafi, skignd-ist um, og fann hann í skotinu, þar sem hann var ad þerra tárin úr augum sér. Gud launi þér fyrir mig, Olafur minn, sagdi karlinn, einhvörntíma mun verda sagt

við þig: það sem þú gjørðir einum af mínum minstu bræðrum, það gjørðir þú mér.

Karlinn fór af stað, kvaddi Olaf með kossi og handabandi, og árnaði honum allsgóðs.

Olafur var ekki nema eitt ár á bæ þessum, því þau eru forløg fátæklínganna, að þeir eru jafnan hraktir úr einum stað í annan, og breyta húsbændur þeirra við þá sem best þykir. Því réði meir hamíngjan enn hreppstjórinn, að Olafur komst í góða vist, því ekki eru það allir hreppstjórar, sem láta sér mjøg annt um, að útvega sveitarbørnum gott fóstur, og opt og tíðum hafa þeir ekki tok á því þó þeir vildu, en stundum láta þeir sér lynda, að kotra þeim einhversstaðar niður.

Húsbóndi Olafs var bjargálna maður og átti mørg børn; hann var ekki með því markinu brendur, að honum þækti sveitarborn óæðri enn hver ønnur, þessvegna fór hann

með Olaf eins og børnin sín, og lagði mikla alúð á, að kenna honum að lesa vel, og jafnvel að draga til stafs. Kristindóminn hafði Olafur lært, en kunni sárlítið í honum sem von var, því hann gat ekki lesið viðstöðulaust. Það sem námfýsi, vilji og ástundan gátu til vegar komið, lét Olafur ekki ávanta, enda var hann að ári liðnu orðinn vel læs og kunni kristindóminn reiprennandi. Prestnrinn fór nú að spyrja hann úr barnakverinu ásamt með hinum bornunum á kyrkjugólfinu; rak þá alla í rogastans, er þeir heyrðu hvorsu vel niðursetníngurinn gat leyst úr spurníngum prests. Þegar hann var staðfestur, lét presturinn hann vera efstan, því hann bar af mørgum ríkismannabørnum bæði í kunnáttu og skilníngi, enda var það vandi prestsins að raða bernunum eptir því hvað vel þau vóru að sér, en ei eptir því, hvað foreldrar þeirra áttu mikið til.

Þegar framliðu stundir, óx Olafi fiskur

um hrygg, varð hann þá hið ötulasta og dyggvasta hjú húsbónda síns. Í hjáverkum lærði hann að skrifa, á sunnudögum las hann fróðlegar bækur, og bráðum varð hann einhver hinn efnilegasti únglíngur í sveitinni. Hann var maður guðrækinn mjög, og fór alténd til kyrkju þegar hann komst höndunum undir, og gafst honum þá færi á, að sjá Þóru dóttur prestsins, sem hafði staðið andspænis á móti honum þegar þau vóru staðfest. Eptir messuna gáfu þau jafnan hvort öðru hýrt auga; samt gafst Olafi aldrei færi á, að tala einslega við prestsdóttur, en það sem munnar þeirra ekki fengu mælt, töluðu augun þess betur.

Þegar Olafur var tvítugur, andaðist húsbóndi hans; hann vakti yfir honum seinustu nóttina og veitti honum nábjargirnar. Morguninn eptir fór hann á fund við prestinn og lét hann vita látið eins og vandi er til. Þegar hann reið í hlaðið hjá presti,

stóð Þóra í bæardyrum, hljóp hún þá út á móti komumanni, og varð henni ekki lítið hverft við, er hún sá Olaf harmþrúnginn. Hún spurði hann því hann væri svo grátinn, en hann kvað þann vera andaðan, er hann unni mest næst ǫðrum, er hann að svo stǫddu eigi mætti nefna. Þóra leit þa í gaupnir sér, yfir gaf Olaf og sagði fǫður sínum frá komumanni. Olafur hugsaði nú með sér: það ætla eg að Þóra sé eigi með ǫllu afskiptalaus af hǫgum mínum, ella hefði hún ekki verið svo blíðmál við mig og gjört sér far um að hugga mig — hún hefir valla kala til mín, því svo opt hefi eg séð ástúð og blíðu skína úr augum hennar, hafi hún allrasnøggvast rennt þeim til mín.

Meðan hann var að velta þessu fyrir sér, kom presturinn fram og bauð honum inn í stofu, en að stundar korni liðnu, kom Þóra með kaffebolla og bað hann drekka. Þau vóru bæði svo feimin að hvørugt þorði

að líta uppá annað; prestúrinn var líka viðstaddur og hefði máske tekið eptir augnaráði þeirra.

Í fjögur ár var Olafur fyrirvinna hjá ekkjunni, og fór búið batnandi um þann tíma; ekkjunni unni hann sem væri hún móðir hans og börnum hennar sem systkinum sínum. Það orð fór nú af Olafi, að hann væri einhvör hinn vænsti og duglegasti maður í sveitinni, og best að sér af bændum um alla hluti. Almannarómur þessi fór ekki á mis við Þóru; henni þótti vænt um að Olafi væri hælt, einkum þegar faðir hennar heyrði til.

Á jóladags kvöld, hið fjórða eptir lát húsbónda síns, gafst Olafi færi á að tala við Þóru einslega; lét hann þá í ljósi ást sína til hennar og vakti til um bónorðið, en hún tók á öllu vel, og bað hann vera þolinmóðan, því faðir sinn væri svo sér lundaður, að hann vildi eigi gipta sig öðrum

manni enn audugum eda skólagengnum, en allrahelst sigldum. Jafnvel þó Olafur ad mestu leiti örvænti ad geta fengid Þóru, var hann samt ekki med öllu úrkula vonar, ef hún hefdi módur sína í lidi med sér; geti hún ekki hjálpad okkur, segir hann, getur þad einginn; því góð kona, segir máltækid, kemst þad sem reikurinn kemst ekki.

Þau skildu nú, og hétu hvert ödru órjúfanlegri trygdum hvad sem ádálpadi.

Sídla um kvöldid vóru þær mædgur einarsaman í badstofuhúsinu, Þóra var nídurlút, bros lék einatt á vörum hennar, þó var ekki órgrant ad einstaka tár hrykki henni úr augum. Módir hennar vord nú vör vid, ad eitthvad byggi dóttur sinni í brjósti, og spurdi hvert nokkud gengi ad henni. Þóra gat ekki lengur dulist módur sinni, hljóp um háls henni, kysti hana og sagdi: módir mín góð, hamíngja mín er í vedi ef þú ekki hjálpar mér, jeg er nú fostnud manni þeim

sem mér hefir leikið hugur á í mørg ár, jeg finn það nú með sjálfri mér, að mér hefir orðið á, er jeg játaðist honum á laun við þig, en optlega réði eg það af orðum þínum, er þú hældir honum fyrir mannkosti sína, og við vórum einarsaman, að þér þækti hann vera mér fullboðinn; skildist mér líka á þér sem þú vildir hnegja huga minn til hans; þetta kom mér til að vera of bráð á mér að bindast trygðum við hann, fyrr enn eg hafði ráðfært mig við foreldra mína.

Þér hefir sést mjøg yfir Þóra mín, sagði prests konan, er þú játaðist Olafi að fornspurðum foreldrum þínum; þið stúlkurnar, sem eruð orðnar gjafvarta, verðið sífellt að vera varkárar þegar ykkur virðist úngir menn unna ykkur hugástum, því logi ástarinnar grípur ykkur eins og koldusótt. Ástin dregur ykkur á tálar meðan hún herteknr allar hugrenníngar ykkar, og setst að vøldum í hjartanu; þið eruð orðnar henni ánauðugar

ádur enn skynsemin og tilfinníng dygdar-
innar er vøknud. Hvorr vill ábyrgjast ad
madur sá, er svo mjøg gengur ykkur í augu
sé verdur ykkar, og ad hann verdi ekki ad
næsta morgni ástfánginn í annari stúlku?
Verdid þid þessa ofseint varar, víkur
rósemi ykkar á burt, mannordid kemst í
háska, en ángrid og órósemin, er óforsjálni
ykkar leidir af sér, sviptir ykkur enu frídasta
blómi lífsins: gladlyndi og heilsu. Þú
áttir ekki ad gleyma því, ad þegar svo stód
á, áttir þú einga rádhollari vinkonu, sem
meira tekur þátt í gledi þinni og ógledi,
enn módur þína! Þú segir mér samt eingar
nýúngar, dóttir gód! lángt er sídan eg vissi,
ad þid unnud hvørt ødru hugástum, og því
ad eins reisti eg eingar skordur vid sam-
drætti ykkar, ad mér þókti rádahagurinn
gódur, en hrædd er eg um, ad fadir þinn
verdi ófús á, ad gefa þig svo fátækum bónda-
manni, því optlega horfa fedurnir ekki í

annad enn þad, ad dóttur menn þeirra séu audmenn, og láta þeir þad jafnan lenda á oss stúlkunum, ad una rádahaginum sem audna vor er til. Vid skulum nú fyrst um sinn eigi láta fødur þinn vita neitt af neinu, og skal eg reyna til ad fá hann ofan af þeirri hérvillu, ad gipta þig eingum nema skólagengnum manni edur ríkum. Hún lauk nú upp kistlinum sínum, er stód hjá rúminu hennar, tók upp úr honum peníngapýngju, rétti hana ad dóttur sinni, og sagdi: þarna eru 50. spesíur, er hann fadir þinn gaf mér í morgungjöf, færdu honum Olafi þær, og biddu hann ad ábatast á þeim eins og hann getur; morgungjöf þessari er svo best varid, ad hún komi þér ad haldi og efli hamíngju þína! Þóra tók vid pýngjunni og kysti módur sína, og runnu nú gledi tárin ofan eptir kinnum hennar.

Á nýársdag kom Olafur til kyrkju, fann hann þá Þóru um kvøldid ádur enn hann

fór af stað; hún sagði honum frá viðræðum þeirra mæðgna, og færði honum pýngjuna.

Olafur varð nú fegnari enn frá megi segja, hann hafði vænt ens versta; þessvegna datt nú svo ofan yfir hann, að hann kom eingu orði upp; hann bað að eins að heilsa prestskonunni, kysti á hönd Þóru og skundaði burt með spesíurnar.

Um vorið fór Olafur frá ekkjunni; tók eldsti sonur hennar við búinu og öllum ráðum; Olafur kom sér fyrir á bæ nokkrum í húsmennsku, var kaupamaður um sumarið og réri út um veturinn og aflaði vel. Við vertíðarlok keypti hann hesta til að flytja afla sinn á upp í sveitir, og seldi hann þar bæði sér og öðrum í hag. Hann keypti líka kindur, er hann kom fyrir á bæunum, og seldi arðinn af þeim í kaupstöðunum fyrir ýmsa þarflega gripi. Að ári liðnu fór hann að gá að, hvörsu mikið hann hefði grædt á peníngunum, er prestskonan gaf honum;

sá hann þá, ad hann hafdi haft eins mikinn arð af þeim og høfuðstóllinn var mikill í fyrstu.

Sjaldan gafst honum færi á ad finna unnustu sína, en bréfin gengu þess optar á milli þeirra. Einusinni sem optar fékk Þóra bréf frá Olafi; hafdi hún stúngid því í barm sinn, en verid svo óheppin ad týna því. Fadir hennar fann bréfid, og var ekki seinn ad lesa þad, en því lengur sem hann las, þess sídari urdu brýrnar á honum, og loksins vard hann fokreidur, fór til konu sinnar og sýndi henni bréfid. Hún les þad og segir: hjartad gott! geturdu fundid nokkud ad honum Olafi, er hann ekki ráðvandur madur, kan hann ekki vel til allra verka, er hann ekki lesandi og skrifandi, og fródur um marga hluti fremur morgum, sem eiga ad heita lærdir, er hann ekki kurteys og sidprúdur hvar sem hann sést, og eitthvort hid mesta nettmenni, sem er sá kostur vid

karlmanninn, er vid stúlkurnar gaungumst helst fyrir? Prestinum rann nú reidin, medan kona hans, kvennaprýdin, hálfspaugandi setti fyrir hann spurníngar þessar, og sagdi: ad vísu er þad satt, sem þú segir, kona góð! en jeg hefi tekid þad í mig, ad gefa ekki dóttur okkar eina barna bláfátækum manni og þará-ofan af bændastétt; gefi jeg hana bóndamanni, þá verdur hann ad minsta kosti, ad eiga þúfuna undir sig, og hana ekki svo litla, því til hvørs er ad grípa þegar hardindi koma og skepnur falla? Þú sér þad nú sjálf, gædskan mín, ad vid megum ekki sleppa eina barninu okkar vid ørsnaudan únglíng, er undir eins kemst á vonarvol! Prestskonan þagdi og hugsadi med sér: jeg skal vinna hann med tímanum, allt jafnar sig; fyrst um sinn tjáir ekki ad fara meiru á flot um mál þetta, nú skulum vid sjá hvørnig Ó l a f i farnast.

Nú víkur søgunni til Ó l a f s, þar sem hann var kaupamadur á bæ einum í Á r n e s s

þíngi þetta sumar. Einn góðan þerrirdag rifjaði Olafur flekk á engjum rétt við alfaraveg; sá hann þá hvar maður nokkur kom og nálægðist hann, maður sá reið hægt eins og hreppakerling og reiddi undir sér þverbakspoka. Olafur var nú búinn að rifja flekkinn og settist á stein utan við veginn, hugsaði hann þá um Þóru sína og fátæktina, og var býsna þúngt í skapi. Ferðamaðurinn kom þar að, sem Olafur var, og heilsaði honum. Olafur spyr tíðinda og hvað hann heiti, og hvört hann ætli að fara. Karlinn kveðst heita Hallmundur og koma vestan úr Borgarfyrði og ætla að fara austur á Rángárvöllu, segist hann hafa átt þar ættíngja auðugan mjøg, sem sé dainn, og hafi látið eptir sig hundrað hundraða í jorðum auk lausafjár og penínga, og vera einn erfíngi að øllu þessu. Guð hefir, segir hann, bætt mér það ríkuglega, er hann svipti mig um stundar sakir; sextugur var eg þegar eg misti

aleigu mína; í meir enn 20 ár hefi eg farið manna á milli, og einginn hefir viljað skjóta skjóli sínu yfir mig; nú hefir alvaldur heyrt bæn mína, og látið mig ekki lengur vera kominn uppá menninna; hann hefir tekið ráðsmennskuna af ættingja mínum, sem engum tímdi að gjöra gott, og fengið hana mér í hendur; eg á að líkindum skamt eptir ólifað, og bráðum mun eg segja af mér ráðsmennskunni yfir munum þessum; eg á eingan erfingja nema niðursetning nokkurn, er eg þekkti fyrir 12 árum austur á Rángarvöllum. hann á nú, ef hann lifir enn, að hafa fjóra eða fimm um tvítugt, mér þótti drengurinn gæfulegur mjøg, og valla mun mér hafa litist skakkt á hann, fáum mundi eg betur treysta að fara með auð enn honum; hann gaf mér aleigu sína, mat og drykk, þegar eg var húngraður og þyrstur; nú ætla eg að gefa honum aleigu mína aptur, og hýrast hjá honum þartil lífið þrýtur. Feginn yrði

eg ef eg gæti fundid hann, það er eina óskin mín, er eg á ófengna í heimi þessum. Olafur mundi nú eptir æfisøgu þeirri, er førumaður nokkur hafði sagt þeim Hallgrími, þegar hann var 12 vetra, því hún hafði gengið honum mjøg til hjarta; hann gat valla dulið gleði sína, en sat þó á sér sem best hann kunni, og spurði karlinn, hvørsu lángt hann ætlaði að halda í kvøld. Karlinn kvaðst ei þola að fara lengra enn til næsta bæar, en Olafur sagðist eiga þar heima, og mundu þeir sjást aptur, þegar hann kæmi heim af engjunum. Karlinn héldt áfram, en Olafur skemti sér við voninа um að geta fengið Þóru, ef hann yrði jarðeigandi, og velti fyrir sér, hvørnig best mundi vera, að láta Hallmund vita hvørr hann væri, og ásetti sér, að vekja máls á þeim Hallgrími, þegar hann kæmi heim um kvøldið.

. Hallmundi var vísað til rekkju í skemmu.

einni, þar sem sláttumenn vóru vanir ad sofa, og gafst Olafi þannig færi á ad tala vid komumann. Hann spurdi hann ad, hvørt hann hefdi ekki hitt drengi tvo, fyrir 12 árum, á bæ nokkrum, og hvørt annar drengjanna ekki hefdi gefid honum silúngsstikki og ofurlitla vøkvun úr askinum sínum á eptir? Komumadur kvad þad satt vera, og sagdi ad drengurinn hefdi heitid Olafur. Hvad heitir þú, madur minn, spurdi komumadur? jeg heiti Olafur, svaradi hinn. Þú munt vera sá hinn sami, sagdi komumadur, því undireins og eg leit þig á eingjunum, þá sagdi mér hugur minn, ad eg mundi hafa séd þig fyrri, þó ekki gæti eg gløggvad mig á þér fyrr enn þú vaktir máls á þessu. Þad held eg sé, Hallmundur minn! svaradi Olafur. Karlinn vard feginn mjøg, fadmadi Olaf, og sagdi: viltu nú koma med mér, eg gef þér þad, sem eg á, lofadu mér svo ad hýr-

aſt í horninu hjá þér þángað til lifsſtundir mínar eru á enda?

Eínginn fær útmálað, hvørſu feginn Olafur varð gjøf þeſſari, þar ſem hann nú hafði von um að geta eignaſt Þóru; hann þakkaði karlinum ſem beſt hann kunni, og lofaði að láta dauðan að eins ſkilja þá. Síðan ſagði Olafur honum æfiſögu ſína, varð þá Hallmundur næſta glaður, er hann heyrði það var fátæktin ein, er ſtóð Olafi fyrir góðum koſti, og ſagði: er nú alvaldur ekki búinn að umbuna þér það, ſem þú gjørðir mér? Olafur ſvaraði: eg hefi að eins gjört ſkyldu mína, og þó hefir hinn gæðſkuríki guð umbunað mér ſvo ríkuglega.

Þeir Olafur og Hallmundur fóru af ſtað daginn eptir; ſettiſt Olafur í blómlegt bú á eignarjørð ſinni, er var í ſókn preſtsins, føður Þóru. Sagan um atburð þenna barſt nú bæ frá bæ; Þóru og móður hennar þótti mikils verdt um tíðindin. Næſta Sunnudag reið Olafur til kyrkju

vakti til um bónorðið við prest, og fékk dóttur hans.

Um haustið var brúðkaup þeirra haldið; gaf Olafur konu sinni 50 spesíur í morgungjöf, og bað hana verja þeim eins vel og móðir hennar hafði gjört, ef kostur væri á.

Það er að segja frá Hallgrími, að hann eyddi og sóaði föðurarfi sínum, komst á húsgang, stal, var hýddur, og lendti seinast á Bremerhólmi.

Þau Olafur og Þóra létu sér að kenníngu verða sögu Hallmundar; klæðlausa klæddu þau, heimilislausa hýstu þau, svaungum gáfu þau að eta og sjúkum leituðu þau lækníngu.

## Mannást.

Enskur formaður nokkur, Jón Rikardsson, var einusinni á sjó í ofveðri miklu.

Frakkneskt skip vard honum samferda, og var ekki lángt bil á millum þeirra. Lidlánga nóttina vard Jón ad hafast vid med mønnum sínum sem best hann mátti, því stormurinn og illvidrid ætladi ad lida allt í sundur; loksins komst hann þegar morgna tók, upp undir land, og lagdi skipinu til hafnar vid borgina Danzig. Ad því búnu sá hann, ad frakkneska skipinu barst á á sandrifi nokkru, og sá hann ekki annad fyrir, en ad skipverjar, sem vóru 16 ad tølu, myndu þá og þegar drukna, og þókti honum sárt ad verda ad sjá á dauda þeirra. Hann fór þegar á fund vid formann nokkurn, er lá á hofninni vid akkeri, skamt frá honum, og bad hann ad bjarga Frøkkum úr lífsháskanum, því sjálfur væri hann og menn sínir svo lúnir og máttfarnir af sjóvolkinu og hrakníngunum um nóttina, ad þeir bæru ekki traust til þess.

En formadurinn, sem hann leitadi hjálpar

til, var einn af þeim, sem ekkert bítur á, og eru tregir að hjálpa náunga sínum, einkum að stofna sér í hættu hans vegna. Hann færðist undan með hægð, og taldi öll vankvæði á, að bjarga skipbrotsmönnunum, því slíkt væri, sagði hann, að stofna sér í opinn dauðan, og færði til allar þær ástæður fyrir máli sínu, er slíkir menn eru vanir að hafa á greiðum höndum, þegar einhvörjum liggur á. Þegar eingin kostur var á nokkurri hjálp, bað Jón að eins um bátinn hans, því hann var bæði stærri og sterkari enn sá, er Jón átti, en bátnum vildi hann ekki að heldur hætta, þó 16 manna líf væri í veði. Guð fyrirgefi yður ómiskunsemina! sagði Jón, og fór með þúngu skapi svobúinn.

Þegar hann var kominn aptur á skip sitt, safnaði hann öllum hásetunum saman, og talaði til þeirra á þessa leið: Bretar! þið vitið að hér er um 16 manna líf að tefla, og einginn vill bjarga þeim nema við; hafið

þið ennþá hug og dug til að leggja það á hættu með mér að taka þá á bátinn okkar?

Já, formaður góður! sögðu skipverjar í einu hljóði, stukku þegar 8 úti bátinn með Jóni, og komust klaklaust, þó glæfra før væri, út að strandaða skipinu.

Þeir gátu nú ekki tekið alla skipverja í einu, því báturinn var oflítill og sjóarrótið ógurlegt; vóru þeir því fluttir á land í þremur ferðum, og var það hin mesta þraut og mannhætta. Eigi mátti vita hvert skipbrotsmönnum fannst meira um lífgjöfina eða Bretum að vita sig hafa sýnt slíkan drengskap.

Á meðal skipbrotsmanna var kaupmaður nokkur frá Smyrna, hann var maður auðugur mjög að fé, og hafði mikla kaupverzlun í Danzig. Daginn eptir fór hann framm á skip til Jóns Rikarðssonar og hafði með sér þúsund pund sterling*), og

*) það er jafngyldi 9. ríkisdala.

gaf honum, en Jón skoraðist undan að veita þeim viðtöku, og sagði við kaupmanninn: eigðu peninga þína sjálfur, jeg bjargaði þér af því þú ert náúngi minn, en ekki í því skini að vinna til launa. Komist jeg einhverntíma í líkan háska, og sértu nærstaddur, þá gjörðu mér hið sama! Þess er jeg fús, svaraði kaupmaður, en þú verður að lofa mér, að minnsta kosti í bráð, að sýna þér lít á þakklæti mínu! Segðu mér fyrst, mælti Jón, hvað áttu mikið til?

Svo mikið, svaraði kaupmaður, að jeg gæti lagt nóg á borð með þér og mönnum þínum æfilángt. Kæmir þú einhverntíma til Smyrna, þá skylda jeg færa þér sönnur á mál mitt.

Fyrst svona stendur á fyrir þér, þá get jeg tekið við peníngunum, en þó með þeim skilmála, að þú komir með mér uppá þilfarið.

Jón kallaði nú á alla menn sína, því

allir hefdu þeir hjálpad til ad bjarga skip-brotsmönnunum. Þessi madur, sagdi hann, gefur ykkur þúsund pund sterlíng, skiptid þeim á millum ykkar; þad verda 50 pund á mann. Hásetarnir hikudu sér ekki eins og formadurinn, og tóku vid peníngunum med þakklæti og óskum bestu til gjafarans; en kaupmadurinn stód þegjandi hjá med hryggu bragdi, og gat ekki varist tárum. Jón Rikardsson undradist þetta, komst vid og spurdi kaupmanninn hvors vegna hann gréti. Held urdu þá, sagdi kaupmadurinn, ad jeg myndi hafa gleymt hásetum þínum? Sjádu til, þetta var þeim ætlad, en hitt þér einum; þú ert stórlátur, og óvirdir mig, er þú vilt ekki unna mér þeirrar gledi, ad láta í ljósi þakklætistilfinníng mína.

Því er ekki svo varid, mælti Jón Rikardsson, jeg hefi ad eins útbýtt gjöf þinni vegna þess, ad jeg þarf hennar ekki vid sjálfur, og líka af því, ad jeg vissi, ad slíkt myndi

koma vel mønnum mínum, er nú hafa sýnt drengskap mikinn.

Þú leggur þá ekki á mig óvirðíng? mælti kaupmadurinn, einganveginn! svaradi Jón. Því skylda jeg óvirda þig svo vænan mann?

Þiggdú þá ad minnsta kosti af mér hríng þenna, sagdi kaupmadurinn; en hríngurinn var margra þúsund dala virdi.

Jón hikadi ekki vid, ad þiggja hrínginn, urdu nú hásetar harla glødir, er þeir sáu, ad hinn gøfuglyndi foríngi þeirra einnig fékk gjøf ad gledjast af.

Kaupmadurinn var nú allan daginn frammi á skipi, og skipverjar léku sér og súngu lángt framm á nótt.

Hinn hardgedja formadur, sem ádur var getid, og sem lá ørskamt á burt á høfninni, hlaut, sér til mesta ama, ad sjá á gledi hátid þessa; líka vard hann ad þola brígsl og hnjódsyrdi fyrir hardneskju sína, og skort á mannást; því sagan barst nú med øllum

smáatvikum hús úr húsi um alla borgina, og varð einkaumtalsefni um lángan tíma, og þar sem 2 eða fleiri sátu að víndrykkju, var þetta minni drukkið: lifi þeir lengi og vel, formaðurinn Jón Rikarðsson og kaupmaðurinn frá Smyrna!

## Sól og túngl.

Friðleikans dóttir forðastu ofund! Ofundin hefir steypt engli ofan af himnum, hún hefir myrkvað blíða ljósið næturinnar, hinn fagra mána.

Að eilífu ráði sínu lét hinn allmáttki sól og mána verða af máttarorði sínu: tvö ljós skulu birtu bera á himinhvolfinu; þau skulu vera konúngar jarðarinnar og greina sundur tímana, sem velta áfram.

Hann taladi, það varð. Sólin var hið fyrsta ljós, sem rann upp; eins og brúdguminn að morgni dags gengur út úr svefnherbergi sínu, eins og hetjan gleðst á vegi sigurvinníngarinnar, eins stóð hún þá skrýdd guðs ljóma. Geislakogur með allskonar litum lék um høfuð henni; jørdin æpti af fognuði; ylmur ángaði úr ávøxtum hennar; blómstrin friðkuðu.

Fullt af øfund stóð nú hitt ljósið, og sá að það gat ekki afborið fegurð þessa. Hvað eiga, sagði það moglandi við sjálft sig, tveir konúngar að gjøra á sama veldisstóli? hvørsvegna varð jeg að vera minna ljósið, en ei hið meira?

Nú hvarf mánans fagra ljós skyndilega af gremju þeirri, er honum brann í skapi; rann það frá honum út um víðan himin, og varð að her stjarnanna.

Máninn var þá bleikur eins og nár,

hann fyrivarð sig fyrir øllum himinbúum og veinaði: miskuna mér, miskuna mér, alfaðir!

Þá birtist guðs engill hinum myrkvaða mána, og sagði honum orð hinna helgu forlaga: fyrst þú hefir séð ofsjónum yfir ljósi sólarinnar, þá skaltú nú héðanífrá fá ljós frá sólunni, og þegar jørðina ber milli þín og sólarinnar, verður þú annaðhvort heill eða hálfur myrkvaður eins og núna!

Gráttú samt ekki lengur, þótt þér sæist yfir, hinn miskunsami hefir fyrirgefið þér ávirðíngar þínar, og snúið þeim til ens góða! Farðu, sagði hann við mig, og huggaðu hinn hrelda, hann skal einnig vera konúngur í sínum ljóma; ýdrunar tár hans skulu verða svaladrykkur þeim, sem þyrstir eru, og endurlifga það, er geislar sólarinnar vanmegnað hafa.

Máninn snéri sér nú hugbraustur við, og leit hvervetna í kríngum sig ljóma þann, er hann hefir enn í dag; hann fór af stað,

og gekk eins hægt og núna, konúngur næturinnar, leidtogi stjarnanna. Hann ydradist ávirdínga sinna, kendi í brjósti um þá, er tárfelldu, og leitadi ad þeim, er hann mætti endurnæra; hann leitar enn ad þeim, er hann megi hugga.

---

## Dagur og Nótt.

Dagur og Nótt deildu um hvørt þeirra mætti sér meira; hinn fjørugi og skrautlegi sveinn Dagurinn, hafdi upptokin ad erta Nóttina, og mælti: veslíngs dimma módir, hvad hefir þú, er geti komist í samjøfnud vid sólina mína, himininn minn, blomstrin mín og starfsama hvíldarlausa lífid mitt? Jeg endurlífga þad, sem þú hefir aflífad,

svo þad vakni vid og finni til líssins, og vek upp þad, er þú svæfir!

En er þér nú alténd þakkad fyrir þad þú vekur, mælti hin hógværa hulubyrgda Nótt, hlýt jeg ekki ad endurnæra þad, sem þú hefir vanmegnad? og get jeg þad med ødru móti enn því, ad láta þad ad mestu leiti gleyma þér?

Jeg þarámót, módir guda og manna, tek vid øllu því, er jeg fæddi, ánægdu med ad hvíla í skauti mínu, og undireins og þad snertir klædafald minn, gleymir þad øllum þínum tøfrunum, og beygir hofudid hægt nidurávid. Þá hressi jeg, þá endurnæri jeg sálir þær, sem eru til hvíldar gengnar, med himneskri døgg. Augum þeim, sem vegna sólargeisla þinna, ei vogudu ad líta upp til himins, sýni jeg, hin hulubyrgda Nótt, mergd óteljandi sóla, óteljandi mynda, nýar vonir, nýar stjørnur.

Í sama vetfángi snerti hinn skrøfuli dagur

møttulfald hennar, þegjandi og máttvana hné hann sjálfur niður í skaut hennar, og hvarf með øllu. En hún sat með síblíðri ásjónu í stjarna-møttli sínum með stjarna-djásn á hofðinu.

## Þrír vinir.

Trúðu eingum vini fyrr enn þú hefir reynt hann. Vináttan er úti þegar ølið er af kønnunni.

Maður nokkur átti sér vini 3, tveimur af þeim unni hann mjøg, en vináttu hins þriðja mat hann að vettugi.

Einusinni var hann stefndur á allsherjar þíng, þar var hann ákjærður án allrar vægðar, þótt hann væri sýkn saka. Hvorr ykkar, sagði hann, vill fylgja mér og bera vitni

um sakleysi mitt, jeg er rægdur vid konúng, og er hann ordinn æfarreidur vid mig.

Einn af vinum hans kvadst ei geta fylgt honum sökum annríkis; annar fylgdi honum til dyranna á Þínghúsinu, þar sneri hann heim á leid aptur, því honum stód ótti af reidi dómarans. Hinn Þridji, er hann hafdi minst traust á, gekk inn med honum, taladi máli hans, og bar svo skoruglega vitni um sakleysi hans, ad dómarinn lét hann lausan, og gaf honum gjafir.

Þrjá vini eiga menn hér á jördu. Hvornig haga Þeir sér Þá daudan ber ad hondum, og drottinn stefnir monnum til Þíngs? Audurinn, aldavinurinn Þeirra, hverfur Þeim, og fylgir Þeim ekki svo mikid sem á veg. Vinir Þeirra og vandamenn fylgja Þeim ad dyrum grafarinnar, og hverfa svo aptur heim til sín. Hinn Þridji vinur, er Þeir gleymdu optast á skeidi lífsins, eru góð-verkin, og einginn nema Þau fylgja Þeim ad

hásæti dómarans, þau gánga á undan þeim, tala máli þeirra, og fá þeim náðar og miskunar.

---

## Eikin.

Maður nokkur átti á hvörjum morgni að fara til næsta þorps og koma heim aptur á kvöldin. Vegurinn var lángur og sumstaðar upp á móti, en sumstaðar var hann undanhallur, og þegar sólin skein heitt, var það ekkert gaman að gánga þenna veg. Á miðri leiðinni, þar sem hálendast var, stóð gömul eik, limmikil og laufrík; í skugga hennar var gaungumaðurinn vanur að hvíla sig undir helmíng vegarins, sem eptir var. Laungum sat hann undir eikinni þegar regnið dundi niður úr loptinu, honum þótti svo vænt um eikina, að hann hlakkaði til að

sjá hana álengdar. Eitt kvöld í miklum hita, lagdist hann daudlúinn undir eikina, og þegar hann smámsaman fann, hvørsu hann afþreyttist, sagdi hann vid sjálfann sig: gud er þó gódur, ad hafa skapad blessada eikina þá arna; í skugga hennar hefir hann búid mønnum hvíld og hæli. Hún skýtur greinum sínum út á allar hlidar, og laufblødunum stráir hún á jørdina, til þess ad ljá oss mjúka sæng; á ári hvørju lifna grænu blødin hennar, er gledja oss med ylm sínum og fegurd; fuglarnir kvaka í toppinum, og saungur þeirra svæfir hrygdir vorar og hugarángur. Eikin er vottur speki guds og gædsku!

Morguninn eptir, þegar hann fór ad heiman, var vedur mjúkt og gladt, því stormur mikill hafdi hreinsad loptid um nóttina. Hann héldt nú áfram leidar sinnar, en allt í einu nemur hann stadar á veginum og verdur óttasleginn. Eikin var horfin! —

Hann skundar þángað, sem eikin átti að vera, og sér vegsummerki þess, er óveðrið hafði gjört um nóttina. Ogurlegt reiðarslag hafði klofið sundur eikina, og hinar fögru forsælubjóðandi greinir lágu endilángar umhverfis á jörðinni. Svört rák í eikarbolnum sýndi hvar eldíngin hafði lendt á henni; margar minni eikur vóru líka brotnar, og lágu víða á dreif. Ferðamaðurinn fórnaði höndum til himins, og sagði: þetta er vottur guðs almættis! en hann gat þó ekki tára bundist, því eikin var afmáð.

Það bar til, að jarðeigandinn kom til að skoða eikina, og sá hann að til margs mátti hafa klofníngana og greinirnar; hann ásetti sér þessvegna, að láta smíða nýan predikunar stól úr viðnum handa sóknarkyrkjunni, því gamli stóllinn var orðinn svo fornfálegur; nokkuð af viðnum gaf hann til þess að byggja úr nýan skóla, og mjóu greinunum og rótunum, sem vóru hinn besti eldiviður, skipti hann um veturnætur millum fátæklíng=

auna í sveitinni. Þegar nú veturinn gekk að með frostum og snjóum, heyrði gaungumaðurinn margan fátækan gleðjast af gjöf þessari, og segja: guð hefir verið góður við oss; reiðarslagið, sem hræddi oss, hefir fært oss blessun!

Í skugga eikar þeirrar, er dottin var, höfðu staðið fjórar eikur smáar, er einginn hafði tekið eptir, þær höfðu ekki getað vaxið fyrir greinunum á stóru eikinni. Þær uxu nú ákaft dag frá degi, og leið ekki á laungu að þær fléttuðu saman greinar sínar, og bjuggu til svalan laufskála handa vegmóðum ferðamönnum. Einusinni sem optar sat gamli gaungumaðurinn í laufskála þessum, kom honum þá til hugar hrigð sú, er hafði gripið hann útaf eikarmissirnum, og hvað honum hafði þótt það tjón ómætanlegt, og sagði nú við sjálfan sig: allt hvað guð gjörir, er gott!

## Daudans engill.

Kaldi, grimmi daudi! sagdi Alzindór, hryllíngur fór um hann allan, og hann fleigdi sér nidur á bakka skógar lækarins, er bar med sér brotin strá og afrifin blóm. Æ, blómin og stráin hafa ekki tilfinningu eins og vid! Þau ylma og skarta medan brædur þeirra og systur skrælna og visna af brennandi sólargeislum, eda rætast upp af þeim, er þau hafa vilja. Hvørsvegna kremst sundur hjarta mannsinns, þegar þú, hinn óttalegi birtist, og hrifsar burt vini þá, hvørra líf er áfast vid okkar. Hví afklædir þú enni þeirra hin koldu, skrúda fegurdarinnar, og breytir hinum ástúdlegu myndum, sem hendum verum er ekki um ad sleppa, í adrar myndir hrædilegar, er vid skjálfandi grofum í skauti grænnrar jardar? En á þig, horkujárnid þitt, fær hvørki afl, frídleiki né æska! Af handa hófi grípur þú ein-

hvørn út úr roðinni, en lætur hinn þreytta ørvasa öldúng hvíldarlausan andvarpa á legstöðum vina sinna, og þá, sem þú ætlar að blóta, tekur þú úr hópi hinna glöðu, sem valla hafa borið sér að vørum fleytifullan bikar lífsins; þú situr á svikráðum, og laumast inn í rósarunna ástarinnar, og stíar þeim sundur, er bundist hafa trygðum, þegar þau leiðast með handabandi og horfa með vonarfögnuði fram á ókominn tíma, er lofar þeim gulli og grænum skógum! Saklausa barnið, sem leikur sér og eingan styggir, únglíngurinn, sem byggir yndælar vonir á fullorðins árunum, móðirin, sem eins og hin blíða sól, breiðir út heill og gleði yfir mann sinn og børn — allir verða að fylgja þér, optlega með kvølum og þjáníngum, þegar þú bendir þeim og veifar sigð þinni! Æ, feginn vildi jeg geta forðastmynd þína, ena hræðilegu og spéleitu, slúið burt frá nýgjørvum legstað ástfólginnar unnustu, er varð þér að

bráð; en ógnuuum þínum er ekki markað svið í öllu ríki náttúrunnar! Glottandi kallaðir þú á eptir mér: flöktaðu drengur minn eins og fiðrildi innanum dalinn, sem brosir á móti þér; ennþá glóa ljómandi vængirnir þínir, en brátt mun fagri liturinn þeirra hverfa á burt sem morgunroðinn, og rósirnar, sem þú skemtir þér við, allt þetta kemur til mín, eiginn fær mig umflúið; því drottinn skapaðra hluta, hefir falið mér á hendur forlög ykkar.

Jeg styn og andvarpa, þegar jeg hugsa mig vera kominn fyrir tíman út á land skelfínganna, þó lífshitans blær leiki mér enn þá um mínar rósrauðu kinnar. Nei, jeg ætla að neyta alls þess, er mér býðst, og forðast þig meðan auðið er, fúli fjandi! Vikið frá mér hryggð, áhyggja og áform, er framkvæma skal á ókomnum tíma! Eigi skal jeg mæða mig á að sá né byggja! Skyldi jeg sá og byggja og sjá fyrir öðrum?

Blómlegu leikvellirnir æskunnar liggja nú þegar að baki mér, mætta jeg að eins einu- sinni ennþá bruna leikandi yfir þá, þá munda jeg sneyða hjá alvarlegum og mæðusömum umsvifum, og óhultur skemta mér í höllum gladværðanna. Yndæla gleði, við þig vilda jeg aldrei slíta trygðir, fóthvatur munda jeg stökkva yfir sérhvern skilvegg, er reistur væri millum okkar, og með þér einni vilda jeg sveima yfir á æskunnar land! Æ, einnig helmingur æskunnar er nú með öllu undir lok liðinn! Blíðlega baud hún mér fegurstu ávertina sína, en jeg smáði þá þótt sætir væru þeir, og sóktist eptir skuggamyndum einum, og lagði fánýtar fórnir á altari skyldu minnar. En jeg lifi ennþá, og dýrð- legri enn nokkurntíma áður blasir á móti mér bikar unaðsemdanna. Varir mínar þyrstir eptir hinum sæta og áfenga drykk, sem eyðir öllum kvíðahryllíngi þeim, er ískaldur nístir allar lifshugmyndir mínar.

Jeg ætla að yfirgefa orœfi þau og eiðimerkur, hvørt hrygðin bar mig, í kyrð þeirra sitja óvinveittir andar á svikráðum.

Unglíngurinn valdi sér nú holdlega girnd fyrir einkaførunaut á ókomnum tíma, og stefndi ofaná hina blómríku velli, er máninn skein á; næturgalinn saung og ylm blómanna lagði á móti honum. Í hinum fegursta laufskála, er gerður var úr rósum, tók hann á sig náðir, en mynd gleði og lystisemda sveimaði í huga hans meðan svefninn vaggaði honum í sínu mjúka skauti.

Nú lauk draumagyðinn upp hliðinu því, sem leiðin liggur um inn í draumaríkið, og sýndi Alzindór dalnokkurn þraungan með klettabeltum á báða vegu, en Alzindór kom auga á ferðamann nokkurn, er drógst áfram eptir krókóttum stígum. Tafði ýmist for hans fossandi árstraumur, eða hann leitaði að sporum í sandinum, sem fokið var í; einatt blóðgaði hann sig á þyrnirunnum beggja

megin vegarins. Þá sjaldan hann fann stað til að hvíla sig á, rak hann einhvor kinleg laungun áfram. Mörg smáblóm tróð hann í sundur af fuminu, sem á honum var, margan sætan ávöxt lét hann ónotaðan, og yfir fjöll og firnindi, í regni og stormi flaskaði hann áfram til þess að ná takmarki því, er honum lék hugurinn á, landinu fagra, sem, einsog sagan segir, á að liggja við drogin af dalnum. Ekki hafði hann búið sig einnsaman til ferðarinn, foreldrar, systkini og vinir fylgdu honum, en þau vóru misjafnt sporadrjúg, komust sum á undan honum, sum urðu á eptir; en þareð öll höfðu stefnt á hina blikandi morgunstjörnu, sem allsherjar mark og mið, bjugguſt þau við að geta fundist þar áſíðan.

Nú var pílagrímurinn klifraður upp á hæð þá, er hann hélt mundi vera hin seinasta, enda hafði hann lagt sig allan fram; en þegar hann sá að eins lángur og torveldur vegur var eptir, hné hann niðar aflvana

og andvardvadi; hvarfladi þá ad eins hugur hans lengra og lengra áfram til takmarks þess, er hann gat ekki nád fyrir þreytu.

Medan hann horfdi fram fyrir sig svo lángt sem augad eygdi, rann þar upp morgunrodinn smámsaman skýrari og fegri, en óþol vegmóda mannsins óx ad líkum jöfnudi.

Líknadu mér, sagdi hann, voldugi drottinn yfir landinu þarna! lattu mig ekki vanmegn ast vid dyrnar á ríki dýrdar þinnar! Þá þókti honum sem morgunstjarnan færi af himni ofan, og ljóminn af henni léti um sig allan medan hann badst fyrir, en augu hans vóru harmþrúngin og þoldu ekki fegurd hennar, og fell hann þá í dá!

Alzindór sá gjørla allt þad, sem gjordist í kríngum pílagríminn; gaf honum nú ad líta mynd nokkra, kom sú úr austri og leid nidur ad pílagríminum; dýrdlegur yngismadur stód alltíeinu hja hinum sorgmædda ferdamanni, ásján hans og klædi skinu bjartara

en svanavængir, þegar sólin í upprás andar á þá roda sínum; blær fridarins var breidd-ur yfir svip yngismannsins, blída og ástúd skein úr augum hans. Hann laut med mikilli vidkvæmni nidur ad` hinum veg-móda manni, og hvísladi ad honum: heyrd er bæn þín! komdu med mér, þú, sem ert ordinn þreyttur og viltur, ad jeg megi bera þig yfir á hid eptirþráda land! Og hann tók sjúklínginn í fáng sér, þandi út væng-ina og flaug med hann á leid til morgun-rodans, hvors ljómi meir og meir breiddist út um himinhvolfid.

O, hvørsu gott átti sá, er borinn var! sárindi øll og hrygdir allar skildu vid hann ásamt med dalnum, er hann misti sjónar á í þokunni, og eins og barnid kúrir vid brjóst módurinnar (hann var ad sonnu miklu sælli, þvi hann vissi þó deili sælu sinnar) hvíldi hann øruggur og áhyggjulaus vid hjarta leidtoga síns. En leidtoginn saung á undarlegan hátt um veldi og gædsku kon-

úngs síns, um fögnudinn þá menn finnast aptur, og um yndæli og fegurd landsins. Pílagrímurinn finnur nú á sér, ad hann þokast nær og nær landinu. Þótt hann ekki sjái demantahlídid, þar sem morgunrodinn rennur aptur samann, ekki sólaklasann, sem ljómar ad baki þessa blikanda boga; hann verdur med öllu frá sér numinn, hjartad í honum ætlar ad sprengja brjóstid. En ádúr enn lángt um lídur, stendur hann vid hid blossanda hlid, er breid og lygn móda deilir frá furdulandinu. Leidtoginn lagdi hann í skaut vatnsins, augu hans, er bundid var fyrir, lukust upp þegar vatnid lék um hann, og limir hans máttvana og fjotradir lifnudu vid. Honum skaut ýmist upp eda nidur, tók hann þá teiga af hinu kristalskæra vatni, og eptir hverja öldu, er skoladi hann frá hvirfli til ilja, fannst honum sem hann fengi nokkurskonar frjálsrædi og nýan styrk; hver dropinn, sem vökvadi varir hans, jók á ynd-

æli hans og fögnuð. Þá varð honum allt í einu litið á vatnið, sá hann þar mynd sína ljóma í andlit sér; en hann vogaði ekki enn þá að halda það væri sín mynd, því hún skein fagurt sem leiðtoga hans; hún var skrýdd dagbjertum klæðum með pálmaviðargrein*) í hægri hendinni.

Allt eins og hann ránkaði við sér, lítur hann aptur til lands mótlætínganna, og sér þeim megin á bakkanum ham sinn, hafði honum skolað þar á land sundurrifnum; einnig sér hann veslings ferðamenn krjúpa á kné hjá haminum, og heyrir þá gráta hástöfum, en vein þeirra lét svo illa í eyrum hans, að hann hörfaði á bak aptur. Í þessu bili hljómar raust vinar hans á móti honum handanyfir vatnið: þiggðu bróðurkossinn, ástvinur minn! Þú ert orðinn landi vor, eptir það þú laugaðist í vatni náðar-

*) sigurmerki.

innar! Farðu nú með mér yfir á land friðarins og ástarinnar!

Þá faðmuðust þeir og liðu burt, en þokumökk dróg fyrir, svo Alzindór misti sjónar á móðunni og landinu.

En nú gaf að líta fjalldalinn skírari miklu enn áður með öllum krókum og bugðum, sem á honum vóru; hvervetna vóru kvikar skepnur á ýði.

Beggjamegin við hinn tæpa stíg, er Alzindór hafði áður séð, og á hvorn leiðtogi nokkur bendti, láu ruddir vegir og sléttar götur í allar áttir. Gaungumenn ruddust þar áfram flokkumsaman, klæddir ferðabúníngi. Það var líkast því sem væru þeir að leita að einhverju og girntust eitthvað, en fáir lögðu kapp á að komast áleiðis, því flestir af þeim hyrðtu ekki um fylgdarmanninn, heldur sneru þeir út af veginum, og tróðu sér fram til ýmsra staða, er vóru á víð og dreif. Dalurinn var fullur af ald-

ingørdum, kornøkrum og trjám; var þar gnótt ávaxta og tærra vatnslinda. Fjøldi mesti ruddi sér þángad, og átu og drukku med þvilíku áfergi, ad audsjed var á drykkjulátum þeirra og þúnglamalega gaungulagi, ad þeir vóru búnir ad gleyma hvørt ferdinni var heitid, enda var þeim allur dugur horfinn til ad halda áfram. Æ — en fýsnir þeirra gjørdu þá svo tilfinníngarlausa og hardúduga! Þeir, sem gátu borid adra ofurlidi eda vóru nógu slægir, nádu opt undir sig heilu tré og heilum reitum í aldingordunum, og eyddu og sóudu þessu á allar lundir, eda létu þad skemmast án þess ad hagnýta sér þad; vard margur ferdamadur, er bad ad eins um ad gefa sér einn bita, ad halda áfram med þúngu skapi, án þess ad fá neitt til ad hressa sig á og endurnæra. Eins margbreyttur skari vegfarenda brunadi fram og aptur þar sem menn spiludu og dønsudu. Margur, sem med atorku hafdi keppt fram

á leið til takmarksins, lét glaðværðina ginna sig til að nema staðar, og þegar honum féll hún vel í geð, fleigði hann hattinum, er hlífði honum og gaunguskafnum, er hann studdi sig við, klæddi sig í allskonar skart, og hljóp svo af handa hófi inn í mannþraungina. Þegar Alzindór nálgaðist, breyttist saungurinn, sem áður hafði látið vel í eyrum hans, í hallmæli, ónýtt hjal og barlóm; lipru stígin í dansinum urðu að óvina áhlaupi; lokșins sundlaði þá og þeir duttu út af, aðfram komnir af þreytu, og höfðu hvörki þrek né laungun til að rísa á fætur aptur. Aðrir sátu flokkumsaman á jörðinni, og léku sér eins og börn að smásteinum, skeljum og glerbrotum; en þeir vóru komnir af barnsaldrinum, og það leit illa út, er hærukarlar þessir gláptu svo áhyggjufullir á hið fánýta barnaglíngur, og hripsaði það hvörr af öðrum, ónýttu það síðan eða

geymdu það vandlega, ístað þess að hafa gaman af því.

Á sumum var að sjá, að þeir myndu vilja halda lengra áleiðis, og nema hér staðar einúngis til að hressa sig, því þeir litu fram á hinn sjaldfarna veg, og kölludu förunauta sína saman; en mjög sjaldan gáfu þeir gaum þessari viðvörun. Verið þið hjá okkur! sögðu þeir, sem afvegaleiddir vóru, úthýsið hrygðinni og verið glaðir og kátir!

Það sem Alzindór þótti mestri furðu gegna var það, að stórir hópar ferðamanna höfðu vilist af réttum vegi úti fen og forædi, og í stað þess að hverfa aptur, óðu þeir dýpra og dýpra í bleytuna; hún sýndist eiga dável við þá. Þeir tóku stökk undir sig, slettu skarni hvorr á annan, létu allskonar skrípalátum, og leituðust við að hæna að sér nýja félaga. Einstökusinnum ydraðist einn eða annar eptir, að hann

hafdi gefid þeim færi á sér, og skreid sneiptur ad landi, og bad þá, sem bar þar ad, ad hjálpa sér til ad þvo af sér ledjuna. Valla vard nokkur til ad rétta honum hjálpar- hønd, optastnær forduduſt þeir ad koma nærri honum, svívirdtu hann, eda gjordu gis ad honum, og yfirgáfu hann, svo þad bar ósjaldan til, ad hann sneri aptur burtrekinn og útskúfadur af øllum, og sykki dýpra nidur í forina.

Ó, miklir heimskingjar! sagdi Alzindór, og sneri sér frá þessari vidbjódslegu sýn til hinna grænu ylmandi reita. Þá vard honum litid á pílagrím nokkurn, er bar af flestum í skrautbúníngi og drembilegri framgaungu. Klædi hans vóru gullisaumud hátt og lágt, og vard øllum starsýnt á þau. Svo gamall sem hann var, hafdi hann þó aldrei látid sér annt um annad, enn ad prýda fotin sín undir ferdina, því fyrst núna tók hann gaunguſtafinn í hønd sér, horfdi einusinni

ennþá á sig með ánægju svip, litaðist svo um eptir fylgdarmanninum, og fór af stað. En hann bar alltaf mestu önn og áhyggju fyrir fótunum sínum. Hann sneiddi forsjállega hjá öllum skarkala, spilum og þrætu, og gjörði sér lángan krók til að komast þurrum fótum framhjá mýrlendinu. Við hvört fótmál hristi hann af sér rikið, skoðaði vandlega sjálfan sig, og litaðist um hvört aðrir dáðust að klæðum hans. Eingan lagsmann vildi hann taka, því honum þókti einginn við sitt hæfi; þegar einhvör pílagrímur vinsamlega bauð honum að fylgja honum framhjá hálum stig eður hengiflugi, þág hann ekki boðið, því hann var hræddur um, að hann myndi saurga sig á tötrum hans.

Ofdúngurinn var ekki kominn lángt á leið, þegar hinn ókunni fylgdarmaður brunaði að honum fljótur sem leiptur, og nam hann á burt. Fylgdarmaðurinn fór eins ástúðlega með hann og hinn fyrra pílagrím-

inn; hann sagdi honum eins fagurt af af dýrd þeirri, er hann ætti í vændum, en þessi fagnadarîku fyrirheit létu sem hégómi og skrøksøgur í eyrum prúdbúna mannsins. Honum hafdi aldrei dottid ókunna landid í hug, og einginn átti von á honum þar. En ástvinir hans? —— Var hann þá ekki á sér allt þad, sem honum þókti vænt um, allt dýrindi og skart í skrautbúnínginum? Eins og í draumi hvarfladi nú sama í huga honum, sem alla æfi hans hafdi stadid honum fyrir hugskotssjónum, og fylgdarmadurinn vard nú fljótari ígegnum bláinn, enn fyrra skiptid; því sá, sem hann bar, þurfti hvørki huggunar né lækninga vid.

Alzindór sá nú í annad skipti móduna, en hlidid og land sælunnar var hulid þoku. Vid bendíng leidtogans ód ferdamadurinn drambsamur og øruggur úti móduna, og hamurinn losnadi utan af honum án þess hann yrdi var vid þad. En hann bar ekki,

eins og forgaungumadur hans, ljómandi tignarskrúda undir haminum. Allt skartid, er hann hafdi aflad sér, toldi vid ferdafötin, er flutu aptur til sama lands; var þar þá fyrir hópur gripdeildarsamra ferdamanna, er hrifsudu haminn til sín, og skiptu honum milli sín med kæti mikilli.

Gamalmennid komst samt brádum úr skugga um, hvad hann hafdi misst; hann gat ekki dulid neit sína fyrir hinum fagurbúna fylgdarmanni, og leit raunalegur upp á hann, eins og hann vildi spyrja hann ad einhverju. Fylgdarmadurinn laut med vidkvæmni ofan ad fáráblínginum, og mælti svo: mér svídur þad þín vegna, veslíngs bródir! til einkis hefirdu dvalid á landi hörmúnganna, fyrst þú hyrdtir ekki um, ad útvega þér hátídabúnad þann, er landar mínir skrýdast; þú verdur einusinni enn, ad fara þessa ördugu pílagrímsferd! Vid þessi ord vard ekkert úr hinum drembiláta ferdamanni, og hann hvarf

ofaní móðuna. En hinn blíði leiðtogi lét hann ekki týnast, og Alzindór sá nú annað nýtt furðuverk; því sú var náttúra vatnsins, að gamalmennið varð að nýfæddu barni. Hinn fagurbúni tók barnið í fáng sér, og kysti það blessunarinnar kossum: viðkvæmnis-tárin runnu niður á það, og hann hvíslaði að því blíðlega: jeg skal leggja þig að brjóstum ástarinnar, og sú er ósk mín, að hún leiði þig bráðum annan betri veg til mín!

Alzindór var naumast búin að ná sér aptur eptir undran þá, sem hafði gripið hann, þegar hin mikla vera var komin með byrði sína í dalinn, og skundaði aptur á leið til sælunnar lands, er að eins hafði brugðið Alzindóri fyrir augu. Allt þetta kom svo mikilli laungun eptir landi sælunnar inn hjá honum, að han kallaði á eptir englinum, þegar hann var að líða burt: æ, bíddu við dálítið, þú, sem gjörir menn sæla,

nefndu mér nafn þitt, að jeg geti beðið til þín bæði nótt og dag, að þú einnig viljir leiða mig til friðar og sælu!

Þá stoðvaði hinn dýrðlegi flugið, brosti blíðlega móti Alzindór, og sagði: jeg er sá, er þú óttast og forðast, jeg er dauðinn, er þú smánaðir! Þegar hinn almáttki býtti út gjøfum þeim með englum og høfuðenglum, með hvørjum þeir mættu gjøra mennina sæla, þá bað jeg, að mér mætti veitast sú náð, að mega leiðbeina hinum jarðnesku vesælings pílagrímum til hlíða himinsins. Han veitti mer bæn mína, og jeg lofa hann og vegsama eilíflega fyrir náð þeßa.

Heyrðu til, nú þegar hljómar kall drottins til lausnar, blíður geisli líður híngað úr dalnum þarna; o! það er einhvør útvalinn til sælu, sem jeg má flytja yfir á land fagnaðarins. Mynd nokkur blíð og føgur, eptirmynd himinbúans, en þó nokkru bleikari, kom líðandi í loptinu. Fegurð sálarinnar,

sagði dauðans engill, skín þegar í gegnum líkaman; drottinn kallaði þenna ferðamann til eilífs fagnaðar hjá sér, af því hann hagaði sér þegar þarna niðri sem þeir er byggja sælunnar land. Vertu sæll á meðan, sagði huggarinn, og sveif á móti hinum aðkomanda, og lét hið kristalskjæra vatn að eins drjúpa á hann. Alltíeinu ljómaði tignarskrúðinn, og — — Melinda! kallaði Alzindór upp yfir sig, því hún var sú, sem hann harmaði. En í því hann kallaði, vaknaði hann af drauminum; var hann ennþá í laufskálanum, þar sem hann hafði gengið til hvíldar með þeim ásetníngi, að neyta allskonar jarðneskra unaðsemda; en álengdar blakti í túnglsljósinu blómkerfið, er hann hafði sett á leiði unnustu sinnar.

Alzindór var nú orðinn allur annar maður, hann kvartaði ekki framar, né sókt-ist eptir fallvoltum unaðsemdum heimsins. Með blíðu og hóglyndi bar hann mediæti

og mótlæti, og kostadi kapps um, ad eign-ast þad í lífinu, er hann þurfti, til ad prýda sig med undir eilífdina. Sæi hann módan ferdamann færa sig úr hinum jardnesku reif-um, þá kalladi hann þann sælan, og setti sig í huganum í hans stad. En þó hugsadi hann med sjálfum sér: jeg ætla ekki ad óska komu stundar þessarar of snemma. Hefi jeg nú þegar einnig unnid til tignarskrúda þess, er útvegar mönnunum inngaungu í ríki himnanna? Nei, gedrór og öruggur skal jeg kosta kapps um, ad afla mér dygdar, speki og ástar til mannanna, en ekki þeirra muna, sem jeg verd ad skilja eptir ræníngj-um ad herfángi, og þá mun jeg, fadir miskunseminnar! ókvídinn treysta náð þinni, er þvær blettina af brotlegum manni, og býr honum þann fögnud, sem einginn manna fær útskírt.

Ádur enn Alzindór dyrfdist ad vænta lausnar sinnar, kalladi drottinn hann til sín.

Léttur á sér eins og Melinda leið hann í gegnum himinhvolfið til lands þess, er hann hafði litið í draumi. En þið, sem ennþá farið villir vegar í falldalnum, leggið allan hug á prýði sálna yðvarra, horfið óskvíðnir á dauðan, og mænið vongóðir og öruggir út á hið ókunna land ókomins tíma!



## Prentvillur.

á 4 blſ. 3 línu: eda fyrir óda.
" 6 — 4 — þu — þú.
" 8 — 5 — þeirætludu — þeir ætludu.
" 17 — 13 — nu — nú.
" 19 — 17 — ſtunda — ſtundar.
" 21 — 19 — hjálpada — hjálpadu.
" 32 — 17 — húſinni — húſunni.
" 53 — 11 — foburglédi — foburgledi.
" 72 — 14 — ar — ár.
" 78 — 2 — eitt — neitt.
" 87 — 14 — órgrant — ørgrant.
" 92 — 5 — unnuſta — unnuſtu.
" 118 — 19 — forbaſtmynd — forbaſt mynd.
" 119 — 9 — eiginn — einginn.
" 139 — 4 — falldalnum — fjalldalnum.

## Auglýſing.

Kver þetta koſtar í kápu 32 ſkildínga, en í ſpjøldum 42.

